# SMÁÞÆTTIR

## UM BYGGING ÍSLANDS OG VORA FORNU SIÐMENNING

KAFLAR ÚR FYRIRLESTRUM OG FRÆÐIGREINUM

EFTIR

MATTHÍAS JOCHUMSSON



REYKJAVÍK
BÓKAVERZLUN SIGFÚSAR EYMUNDSSONAR
1913

Stjórnendum

Carlsberg-sjóðsins

með virðing og þakklæti

tileinkað.

## *Formáli og inngangur.*

---

*Í fyrra (1911) veittu stjórnendur Carlsbergssjóðsins í Kaupmannahöfn mér, með sérlegri velvild, ferðastyrk til að fara til Noregs, til þess að sjá og rannsaka fornar stöðvar og fræga átthaga helztu landnámsforfeðra vorra. Jeg notaði þakksamlega styrkinn og ferðaðist um Noreg um tveggja mánaða tíma. En sökum aldurs míns og annara erfiðleika sá ég skjótt, að þeirri rannsókn, sem þurfti, var ég ekki vaxinn. Að vísu fór ég yfir þveran Noreg og víða með ströndum landsins eins og leiðir liggja; náði ég helzt að kynna mér vestursveitir landsins, þar sem lágu hin fornu Gulaþingslög, enda var þaðan runninn og bygður allur hávaði Íslands. Nákvæmri (topografiskri) rannsókn gat ég ekki við komið, svo aðalþekking mín stafar mest frá bóklegu námi, uppdráttum og leiðbeining valinna manna.*

*Í ritkorni því er fylgir er því víða fljótt og lauslega yfir hér sögu farið, þar sem bæði er stærð ritsins afskömtuð, og margt af efninu skeytt saman úr fyrirlestrum og blaðagreinum, svo nokkrar ítrekanir hafa orðið við samskeytin.*

*Þættirnir eru;*

*1. Tildrög Íslandsbygðar.*

*2. Taldir landnámsmenn eftir norskum fylkjum, með stuttum lýsingum landshátta.*

*3. Tildrög til þjóðveldis Íslendinga.*

*4. Fyrirmyndir, eða kostir og brestir hinnar fornu siðmenningar.*

*5. Um skáldskap fornskálda, og meira um galla hins forna fyrirkomulags.*

*Í svo stuttu yfirlits-riti þykir mér engin þörf að vitna til heimilda, enda hef ég ekki sumar hinar helstu við hendina. Þó vil ég nefna hina ágætu Noregssögu P. A. Munchs, því að fyrir hana hef ég getað rakið upphaf og óðul ýmsra merkra landnámsmanna, er hann einnig telur eftir fylkjum. En hinn rithöfundurinn er landi vor Bogi Th. Melsteð, þar sem hann í 1. bindi Islendinga sögu sinnar segir frá landnámum á Íslandi, hringinn í kring, með mikilli þekkingu og nákvæmni. En þótt ég síður en ekki auki eða bæti rit og rannsóknir þessara og annara höfunda, þá eru þeirra bækur í fárra höndum, og ekki hentar ungum nemendum hér á landi. Ég vildi gefa yfirlit, og, hvað landnámin snertir, benda á hverju hinir einstöku landnámsmenn sleptu, er þeir fluttu hingað, og hvað þeir hreptu. Því þótt Landnáma sjálf sé fyrsta og bezta heimildin fyrir slíku, er hún erfið handbók fyrir nemendur, með öllum ættartölum og öðru sem henni fylgir.*

*I annan stað var aðalmarkmið mitt með þáttum þessum, að reyna til, á auðveldan hátt, að skýra og rökfæra menningargildi vorrar fornu bókfræði, draga úr öllu blindu oflofi, og skoða hina fornu siðmenning feðra vorra — ekki eingöngu í*

*skuggsjá þess tíma þegar sögurnar voru færðar í letur, þ. e. á 12., 13. og 14. öld, þrem eða fjórum öldum eftir að þær gerðust, eða drög til þeirra mynduðust í minni þjóðarinnar, — heldur einkum í réttu ljósi vorra tíma, því þótt aðal-viðburðir og þættir í flestum sögum vorum frá 10. og 11. öld séu oftast sannsögulegir, hafa allar sögur frá þeim tímum stórum breyzt, ýkst og fegrast á þeirra löngu leið mann frá manni, svo hið upprunalega hefur víða farið milli mála og hið sannsögulega fengið ótal litabrigði síðari tíma, einkum 12. og 13. aldarinnar.*

*Hinar glæsilegu fyrirmyndir fornrita vorra eru oft lofaðar og vegsamaðar fram úr öllu hófi, eins og væri þær bæði sannsögulegar og oss, sem nú lifum, til fegurstu eftirbreytni. Þessar fyrirmyndir, er ég kalla, hefur fyrir löngu þurft að taka fram og gagnskoða við nútímans dagsbirtu. En búast má við, að mörgum vorra eldri manna sé lítið um þær vefengingar gefið, og að þeir efist um að aðrar fyrirmyndir finnist betri; „heimurinn“, segja margir er sjálfum sér líkur, og siðmenning vorra daga, þótt breyzt hafi í ýmsu, mun lítið taka fram hinni gömlu — nema miður sé, því hávaði þjóðarinnar er enn annaðhvort réttlaus, ellegar kann ekki með réttindi (eða frelsi) að fara; blind samkepni ræður lögum og lofum“. Og enn segja aðrir, að siðmenningin sé þegar hver vill komin í þrot: vísindin séu að lenda í eintómri óvissu eða getgátum, trúin orðin sem niðurlagsfat og siðafræðin falli með trúfræðinni, örbirgðin vaxi með auðlegðinni, atvinnuleysið með kunnáttunni og farsældin minki*

*í öfugu hlutfalli við „framfarirnar“. Í öllu því bölsýni er nokkuð satt, en yfirleitt er sú skoðun hin hróp legasta villa. Það er synd og fávizka að vanþakka eða sjá ekki allar þær umbætur, sem eru að gerast árlega og daglega fyrir augum vorum! Hið forna barbarí er óðum að hverfa, en bæði þekking og nauðsyn að draga saman hugi og hendur allra heimsins þjóða — jafnóðum sem hin miklu nýju verkefni og verkfæri hærri allsherjar siðmenningar þekkjast og reynast betur. Hvenær hefur það áður orðið, að fjarlægar og óskildar stórþjóðir færi að bindast félagsskap og bræðralagi? hvenær hefur áður nokkur stjórnvitringur kent allsherjarfrið og samábyrgð (Solidaritas) allra þjóða? hvenær verið kendar hærri hugsjónir og fyrirmyndir en nú? og hvenær hefur sú þjóð, sem aðra sigraði, goldið fyrir þá þjóð skaða og herkostnað með hundruðum millíóna?[1]) Að slíkar reformatiónir, sem nú standa yfir, vinni ekki ætíð sigur án nokkurra revólútióna, er lítið að undra, þegar gamalt og nýtt á öllum svæðum lífsins lendir saman í iðukasti hins nýja framfaratíma; því, að hinar ytri framfarir leiði til innri og æðri framþróunar, má auðvitað ætla. Í heimspeki, guðfræði og siðfræði þykjast og margir vitrir menn sjá tákn og fyrirboða betri tíma, eins og bersýnilegri merki þess, að lífið sé „eilíft og algilt“ (Bergson), ódauðleiki sálar og sjálfsmeðvitundar orðinn sannfæring æ fleiri og fleiri hugsandi manna, og loks kannast nú fleiri og fleiri við að rætur alls réttlætis, góðleiks og siðgæðis liggi í sjálfu mann-*

---

*1) ɔ: eins og England breytti við Búana.*

*eðlinu, eins og vitið sjálft og aðrar guði vígðar gáfur, að hið heimskulega, heiftrækna, síngjarna fer sí og æ halloka — dagar uppi meir og meir — fyrir sól samúðar og sannleika, réttari þekkingar og þjóðmenningar, það er orðin áreiðanleg vissa. Og þá lífsskoðun er öllum þeim, sem kenna, og öllum þeim, sem nema, einsætt að festa í huga og minni, svo allar hvatir í lífsbreytni manna megi hneigjast að henni og fylgja hinum ungu út í lífið. Hið sama kennir öll kristindómsskoðun nútímans, þar sem trúfræðin er meir og minna leyst úr böndum valdboðinna setninga fyrri tíma.*

## I.

## Tildrög Íslandsbygðar.

„Svá eru allar vitrar þjóðir, at vita vilja upphaf sinnar kynslóðar,“ segir Haukur lögmaður í upphafi landnámsbókar sinnar. Haukur ritaði á öndverðri 14. öld, og telst Landnáma hans síðast gerð og vera samsetning allra eldri rita um landnám hér á landi, svo sem Sturlubókar, þótt megin hennar sé þar Melabókar Styrmis, svo og eldri rita, er týnst hafa og fullyrt er að stafað hafi í fyrstu frá Ara hinum fróða og samtímis mönnum hans. Orð Hauks gilda enn, og í því efni stöndum vér Íslendingar framar öllum þjóðflokkum, er komust til sögunnar á miðöldum, að vér höfum geymt nöfn og mörg önnur kensl á hinum merkustu mönnum, er í fyrstu fundu og námu þetta afskekta land vort — því hinir svo nefndu Papar námu hér aldrei fastar bygðir —, enda bætist og það við, að vér þekkjum yfirleitt ættir vorra helztu og elztu kynslóða og síðan flestra þeirra niðja allar götur meðan þjóðveldið stóð, eða í fullar 4 aldir; má og síðan rekja ýmsar nútímaættir upp til hinna fornu ætta. Slíkt geta engar aðrar þjóðir nú, utan þjóðhöfðingjar og helztu lendir menn Þjóðverja, Frakka og Englendinga. Þó má nú þegar geta þess, að til framætta landnámsmanna ná fæstar ættartölur svo áreiðanlegar megi heita.

En þetta, að vita uppruna sinna forfeðra og landsbygðar, felur í sér mikinn og efnisríkan fróðleik, sérstaklega til eflingar þjóðrækni og þjóðernistilfinning. Í frumsögu lands og þjóðar felst eða býr *þjóðernið* og þess örlagasaga eins og reifum vafið barn; öll þjóðarinnar siðmenningarsaga frá elztu tíð ber þar við himinn eins og brúnir fjalla, er úr hafi rísa og boða land fyrir stafni. En brátt skýrist sjónin og deili landsins koma fram með æ fleiri ummerkjum unz föst jörð er undir fæti. Af þessu kemur það, að landnámssaga vor veitir öllum námfúsum unglingum sérstaklega ánægju og unun, eins fyrir það, þótt hún sé engin listarsaga, og full af sögnum og æfintýrum. Landnáma er margra manna verk, eins og auðskilið er, því að enginn einn maður gat verið jafnfróður um landnám í öllum bygðum landsins. Landnáma fer eins og farandkona sveit úr sveit, hún hornar landið, hvort heldur hún byrjar hringferð sína sunnanvert eða norðanvert, krækir fyrir hvert andnes og inn fyrir hvern flóa, fjörð og vík, og eins og göngukonan tínir alt, sem bætist, í skreppu sína, eins gerir Landnáma, hún hirðir hverja sögn og munnmæli, tefur sig ekki á að rökfæra eða rekja annað en það, er hún veit sannast og réttast um hverja landnema fyrir sig, kynslóð þeirra og takmörk landnámanna. Allar sagnir hennar bera sannan alþýðublæ, án öfga og fegurðarauka, enda leiðrétta hennar sagnir allvíða hinar listamannlegri sögur og draga oftara úr þeirra öfgum, en hitt að þær ýki. Það er vorblær yfir frásögnum Landnámu. Líkt og sjálfir landnemarnir hljóta að hafa gert, sjáum vér við lestur þeirrar bókar land í fjarska, frítt og svipstórt land, hið sama og feður vorir sáu; munurinn er einungis sá, að þeir sáu land *vona* sinna, land

og ókominna *örlaga*, en vér sjáum þúsund ára örlagabygðir þjóðar vorrar. Og hvernig fyllum vér svo eyðurnar, sem á milli bera? Það gerum vér með söng og sögu og samhygð blóðs og skyldu, það gerum vér með þeim minnum og menjum, sem ekki deyja þótt kynslóðirnar komi og hverfi, heldur festu og varðveitir heild þjóðernisins með þeim hjartataugum, er aldrei með öllu slitna.

„Þú landnámstíð, þú lands vors bernsku tíð,
þú ljómar eins og vordagssólin fríð!
Þú skín á raka, rósum klædda fold
og rauðagulli fóðrar stein og mold.
Með yndisangan, söng og kvak og klið,
þú kveykir í oss unað, ljós og frið,
og getur vakið hjörtun öld af öld,
sem áður voru stirð og jökulköld!“

og svo lofar Landnáma öllum sögunum, sem hún er eins og upphaf að, — allri hinni miklu *söguöld*, sem vér heyrum lofaða og vegsamaða á marga vegu, og ymsir hafa kallað „gullöld“. Það er þó öfgamál, eins og síðar skal bent á. Hitt er víst, að undravert stórvirki unnu vorir elztu forfeður, er þeir reistu það „musteri mannorðsins“, það furðuverk norrænna þjóða, er hvergi var þvílíkt til í norður-Evrópu. Það var *þjóðveldi Íslendinga.* Eins og á stóð, var það smíði hið mesta furðuverk, og þó ófullkomið eins og öll mannaverk, ekki sízt frumstofnanir ríkja. Vissulega smíðuðu þeir eins og þeir kunnu og vissu bezt, en við raman var reip að draga, þar sem allir forráðamenn urðu jafnir að vera. Skal það betur skýrt síðar, en um „gullöld“ þarf ekki að tala, slíkt væri barnaskapur, öll atvik, tíminn, allir lands- og staðhættir, gerðu aðra stjórn og tilhögun óhugs-

anlega, en þá, sem landnámsmenn og niðjar þeirra stofnsettu, enda lá jafnan nærri, að hin fagra bygging riðaði til falls eða hryndi við hverja hviðu, sem yfir dundi.

Eftir þennan litla formála, skulum vér snúa oss að tildrögum Íslandsbygðar. Yfirleitt voru tildrögin hin mikla víkinga- og siglingahreyfing á norðurlöndum, sem hófst um daga Karls keisara mikla († 814), eða um aldamótin 800. Voru norðurlöndin þá fyrst að fæðast í ljós allsherjarsögu Evrópu, enda þótt greinileg saga þeirra sem ríkja, yrði hvergi í letur færð fyr en Íslendingar gerðu það á 12. og 13. öld. Á 9. öldinni og lengur en það, voru engin föst takmörk sett milli Dana, Svía og Norðmanna, og á hinum stóru víkingaflotum, sem suður á bóginn herjuðu, voru Danir að vísu aðalþjóðin, en með þeim fylgdu ótal sveitir, foringjar og kappar af Frísum, Söxum, Vindum, Svíum og Norðmönnum; en það er óðs manns æði að botna í nöfnum manna, kappa og þjóðflokka alla 9. og 10. öld. Þar af ruglingurinn um Ragnar, Loðbrókarsonu og Göngu-Hrólf, sem nú eftir svo margar aldir er orðið að metnaðardeilu með þeim þjóðum, er nú eru margþroskaðar, en þá voru einsog milli vita. En ef Danir telja sér til frægðar helztu herfararirnar suður með ströndum Evrópu, hafa Norðmenn (Hörðar) verið hinir fyrstu *hafsiglingamenn,* og fyrstir siglt beina leið til hinna brezku eyja. Með Dönum herjuðu Víkverjar, Gautar og Skánungar, en Svíar (Upp-Svíar) leituðu austur og herjuðu á þjóðir þær, er bjuggu við Eystrasalt og Botnana, og stofnuðu loks Garðaríki. Hin hreyfingin, sem leiddi til Íslandsbygðar, og fl. landa, var sú, eins og kunnugt er, þegar Haraldur hárfagri braut endilangan

Noreg undir ríki sitt og einveldi. Island hefði eflaust orðið smásaman bygt, þrátt fyrir Harald hárfagra, úr því þrír nafnkunnir víkingar, þeir Naddoðr, Garðar og Flóki voru búnir að finna það og kynna mönnum deili á því; en af ofríki Haralds og jarla hans hlauzt landflótti þriggja hinna fyrstu höfðingja, er bygðu Ísland, og síðan hins mikla flota, er síðar kom út, einkum þeirra, sem riðnir höfðu verið við vesturlöndin, eða beint höfðu barist við Harald í Hafursfirði; það reið á smiðshöggið. Skal síðar drepið á þau tildrög, er ollu siglingum hingað frá vesturlöndunum. Var ofríki Haraldar undirrót margra atburða, en þó einkum landflótta þeirra er í fyrstu hviðunni leituðu hingað beint frá óðulum sínum, eins og þeir Ingólfur fóstbræður, er flýðu land fyrir ófriði við sonu Atla jarls hins mjóva, og svo þeir Ketill hængr og Skallagrímr. Er svo talið að þá hafi orðið nokkurt hlé á útförum hingað alt til þess, er Haraldur sótti heim víkingabælin í vesturlöndunum og styrkti óbeinlínis Íra og Skota til að verða lausir við flesta hina svæsnari víkinga. Ýmsir virðast hafa farið til Íslands af „fýst“ sinni, án þess að þeir væri í fjandskap við Harald, og um þrjá er sagt, að væri vinir hans og færi út í fullu leyfi hans. Það voru þeir Hrolllaugur Rögnvaldsson Mærajarls, Ingimundur hinn gamli, og Þórólfur fasthaldi. Að öðru leyti verða tildrögin mörg á slíkum og þvílíkum tímum; oftlega eru það innri hvatir, sem þá ráða breytni manna, þótt miður geri vart við sig á jöfnum og rósömum tímum. Eða hvers verðum vér varir á vorum dögum? Fer ekki margur sá af landi brott, sem ýmist leiðist af blindri hvöt, ellegar honum fer líkara Ingimundi gamla, sem lengi hugðist mundu ósanna spá völvunnar, en sá sig þó um

hönd og „nam óbygt land“, þótt ekkert sýnilegt neyddı hann til!

Hvenær hófust landnám á Íslandi, og hve lengi stóðu þau yfir? Árið 1874 héldum vér 1000 ára afmæli þjóðar vorrar. Nær verður ekki komist en að það ár (874) hafi Ingólfur fest bygð sína í „Reykjarvík“. Segir Landnáma allgreinilega frá sögu þeirra fóstbræðra alt til þess er Ingólfur fann súlur sínar „undir Arnarhvoli“. Þá er og næstu niðja hans getið, fyrst Þorsteins sonar hans, er „þing setti á Kjalarnesi“, þá sonar hans, hins ágæta lögsögumanns Þorkells mána, er var trúmaður mikill eins og afi hans, en þó kristinn í anda, og lét bera sig á banadægri í sólarljósið og fól sál sína þeim, er sólina hefði skapað. Hans son var Þormóður, er allsherjargoði var þá er kristni var tekin í lög. Enn má nefna þá Skallagrím og Þórólf Mostrarskegg, svo og Björn austræna, er snemma leituðu undan reiði Haralds hárfagra og sigldu beint til Íslands; fleiri mætti nefna. Þá varð 10—12 ára hlé, að fáir stærri menn færi hingað úr Noregi, en því fleiri frá vesturlöndum. Úr því hófst aftur mikill útflutningur úr Noregi, enda voru þá allar leiðir til Íslands kunnar orðnar, og menn hættir að óttast *norðrið*, hafnleysur og fleiri örðugleika. Var þó eftir aldamótin 900 hinum stærstu landnámum að mestu lokið og orðið þrengra fyrir að velja sér lönd svo landkosta og landrýmis nyti, en alt til 930 telur Ari að landnámstíðin hafi varað, þ. e. 60 ár, og mun það svo að skilja, að þá hafi alt óbygt land numið verið, en „albygt“ hefur það ekki þá verið, af sögum vorum að sjá. Austfirðir urðu, að menn telja, síðast fullbygðir, þótt landnám byrjuðu þar einna fyrst. Skal nú

telja þá landnámsmenn, er vér vitum nöfn á, eftir fylkjum í Noregi eftir beztu heimildum.

## II.
## Landnemar á Íslandi, taldir eftir fylkjum í Noregi.

Eins og Munch segir, má vel kveða svo að orði, að mestur hluti Íslands hafi verið numinn og bygður úr hinu forna Gulaþingi. En Gulaþingslög náðu frá Sunnmæri suður fyrir Agðir og stundum til næstu héraða austan fjalla. Á landnáms öld skiftist Noregur í 3 lögdæmi: Gulaþingslög að vestan, Frostaþingslög frá Sunnmæri og norður af, en á Upplöndum réðu Heiðsifjalög. Síðar bættust við Borgarþingslög, er ríki Noregskonunga þótti fast orðið alt suður til Gautelfar. Þó er nokkuð óljóst um takmörk hinna einstöku lögdæma, því þau voru breytingum háð. Þannig var Hálogaland oftast talið lögdæmi sér, og átti þingstað í Þrándarnesi. Þar var heilfylki, en tvö hálffylki þar suður af, því að Hálogaland er alt torsótt og míkil strandlengja. Norður af Hálogalandi liggur Finnmörk, er þá var óháð Norðmönnum, en nú liggur það land undir Noreg og byggja Norðmenn uú einir að mestu alla strandlengjúna austur undir Hvítahaf, hina fornu Gandvík. Þá voru og þrætulönd öll þau héruð Svíaveldis er næst lágu Noregi að austan, fyrst Vermaland, þá Járnberaland, þá Herdalir, þá Jamtaland bak við Þrændalög, og loks Markir, er Kilinum sleppur austur af Hálogalandi. Nær Kjölurinn þar víða niður að fjarðarbotnum, en smálækkar norður af; er og meginið af Hálogalandi eyjar ein-

gramr sjálfr meginramir
fjölkunnigra Finna
fullstórum barg *Þóri.*

Nú telst Finnmörk 20. umdæmi (amt) Noregs, stærst allra að víðáttu, en minst að mannfjölda, lítið yfir 30 þúsundir. Hálogaland er nú 2 umdæmi með 200 þús. íbúum, eða $^1/_{10}$ hluta þjóðarinnar. Á Hálogalandi (og Finnmörk) eru harðir vetur, en hlý og fögur sumur, og er þar því víða frjótt og búsæld mikil, einkum á eyjunum. Skógur vex langt norðan eftir. Aldrei koma þar hafísar. Þar voru ríkismenn miklir á fyrri tímum, veiðimenn frægir og sjógarpar.

Frá Hálogalandi telur Munch þessa landnásmenn: *Baug*, fóstbróður Ketils hæings, afreksmannn mikinn. Hann var og afi Gunnars á Hlíðarenda. Þaðan var og *Ólafur tvennumbrúni*, er nam Skeið í Árnesþingi og bjó á Ólafsvöllum, hamramur vel. *Eyvindur Loðinsson* var annar; hann nam Flateyjardal, og var afi Finnboga hins rama; ennfremur *Ólafur bekkur*, er nam Ólafsfjörð á móts við Gunnólf gamla; *Þengill mjöksiglandi* er bygði Höfðahverfi í Eyjafirði, var einn. Hans sonur var Hallsteinn, er kvað þá er hann kom af hafi:

Drúpir Höfði,
dauðr es þengill,
hlæja hlíðir
við Hallsteini.

*Þuríður sundafyllir* var og háleygsk, sú er bjó í Bolungarvík „ok setti kvíarmið á Ísafjarðardjúpi, ok tók fyrir á kollótta af hverjum búanda í Ísafirði". Og loks eru ótalin stórmennin: *Grímur* hinn háleygski, er var skipstjóri með Kveldúlfi og bróðir hans *Hrómundur* í Þverárhlíð og enn eru ótaldir þeir *Geir-*

*röður* á Eyri og hans félagar, sem Eyrbyggja segir frá. Allir þessir landnemar virðast hafa unað vel við umskiftin, jafnvel þeir Eyvindr og Ólafur bekkur, er bygðu útskaga, enda nærri veiðiskap. Með Katli hæing hafa ýmsir Háleygir farið út, þeir eð sökótt áttu eins og hann við konung; voru og Naumdælir mjög skyldir og venzlaðir Háleygjum. Þess má geta, að líkindi eru til, að góð viðkynning milli Íslendinga og Háleygja hafi verið þegar á landnámstíð. Á það bendir skyldleiki þeirra þar norður við Mýramenn, Ingimund gamla og fl. En einkum bendir til þess lofdrápa Eyvindar skáldaspillis um Íslendinga, sú er þeir launuðu með feldardálkinum mikla. Er það hinn mesti harmur, að oss hefur ekki geymst af þeirri drápu nema þetta upphaf:

Út réð Ingólfur leita
ógnreifur með Hjörleifi.

En þótt ekki sé meira til, en þetta eina, fyrsta vísuorð drápunnar, er sem vér heyrum þyt strengjanna — arnsúg hins bezta fornskálds Norðmanna.

## 2. Naumdælafylki.

Þar eru landshættir líkir og á Hálogalandi, fylkið lítið en meiri bygð á meginlandi en til eyja; skilur eyði mjótt milli þess og Eyna- og Sparhyggjafylkja í Þrándheimi, og settu menn þar skip yfir í viðlögum, eins og Haraldur konungur hárfagri gerði, er hann fór að Þórólfi Kvöldúlfssyni.

Úr þessu fylki eru nefndir þeir höfðingjarnir: *Ketill hæingur, Sighvatur hinn rauði og Ketilbjörn hinn gamli að Mosfelli*, forfaðir Haukdæla, og einhver frægastur og göfgastur allra landnáms manna. Þeir Ketill, sem bygðu Rangárvelli og Fljótshlíð, urðu og hinir fræg-

ustu og kynstærstu menn. Var Mörður gígja sonur Sigbvatar, en Hrafn fyrsti lögsögumaður Íslendinga sonur Ketils og ef til vill fyrstur karlmaður borinn á landi hér. Hlutu þeir hin beztu landnám, enda urðu mjög auðsælir. En má nefna úr Naumdæli *Þorstein svörfuð*, er nam Svarfaðardal, ramaukinn maður, og *Án rauðfeld*, er fyrst bjó í Dufansdal í Arnarfirði. En þar þótti Grelöðu jarlsdóttur konu hans „illa ilmat ór jörðu“, og fluttu þau þá að Eyri (Hrafnseyri). Þar fann húsfreyjan „hunangseim ór grasi“.

## 3. Þrændalög.

Svo kölluðust einu nafni hin 8 fylki, er lágu umhverfis hinn 30 mílna langa Þrándheimsfjörð. Það er mikið hérað og frítt. Eyjar liggja bæði úti fyrir eins og Hítrar, Irjar og fl. og innfjarða. Beggja megin liggja dalir inn í fjöllin, sem fremur eru lág þar til hærra dregur, eru laufskógar þéttir víða í Þrándheimi, akrar og önnur frjósemi. Fult er þar af stórbýlum og frægum örnefnum. Má fyrst nefna *Niðarós*, er Ólafur Tryggvason fyrstur gerði konungssetur, og nú heitir Þrándheimur (Throndhjem). Bærinn liggur á eyrum við ána Nið. Skamt frá honum eru *Hlaðir*, aðsetur jarlanna, en góðan spöl ofar eru *Rimul* við *Meðalhús*, þar bjó Einar Þambarskelfir. Það er nú prestssetur. Þá má nefna sveitirnar, *Frostu*, í miðju hèraði, þar sem þingstaður Þrænda var, og nokkru innar *Mærina*; þar var helgistaður mikill í heiðni. *Áglói* er og þar í nánd, þar sem Sigurður jarl hinn ríki sat. Innar, upp í Veradal, eru *Stiklastaðir*, þar sem orustan stóð. *Steinker* hinumegin, var og mikill höfuðbær. Þar er nú kaupstaður. Enn má nefna *Eggju*, þar sem Kálfur bjó Árnason, *Gimsa*,

þar sem Styrkár bjó. Utast í firðinum eru stórbýlin *Austurátt* og *Rein*, og er þá komið á Norðmæri, því hún nær yfir mynni fjarðarins og að Naumdælafylki. Þrændalög þóttu meginstyrkur Noregsríkis, því að þar var hægt liði að safna, en þó lengst frá ránum og herhlaupum víkinga, en vegir erfiðir suður í landið. Þessi voru nöfn fylkjanna: Orkdælaf. upp af N.mæri, þá Gauldælaf., þá Strindaf., þá Stjórdælaf. Þeir, sem þessar sveitir bygðu, kölluðust Útþrændir. Innþrændir bygðu hin: Verdælaf., Sparbyggjaf., Eynaf. og Skaun eða Skaunafylki. Merkastur landnámsmaður úr Þrándheimi var *Hrafn hinn heimski Valgarðsson*, er land nam undir Eyjafjöllum. Af honum voru Oddaverjar komnir í beinan karllegg. Úr Veradal voru *Ketill þrymur* og *Grautatli*, er töldust með stærstu landnemum á Austfjörðum og helztu stórmenni þar voru af komnir. *Þórhaddur hinn gamli*, er nam Stöðvarfjörð, var og þrænskur, svo og *Eyvindur vopni*, er nam Vopnafjörð. Fleiri landnemar þaðan eru ekki nefndir, þótt miklu fleiri hafi eflaust gleymst, heldur en nefndir eru. En síður mun ófriður hafa elt menn úr landi í Þrándheimi, en þegar sunnar dró, því miklu meiri friðsemi virðist hafa fylgt jörlunum þrænsku, — um *konunga* þar er alt óvíst —, en suður í fylkjunum. Höfum vér litlar sögur þaðan norðan úr landinu á þeim tíma. Er líklegt, að smærri landnemar hafi leitað út til Íslands og tekið sér bólfestu eftir að leiðir og landshættir var kunnugt orðið. Líklegt er að *Brynjólfur hinn gamli*, og bræður hans, er sigldu snemma til Íslands beina leið á sínu skipi hver, hafi þrænskir verið, eða af N.Mæri, er þeir höfðu svo mikinn skipakost, og ekki voru þeir smáþægnir um

landnámin. Varð Brynjólfur einkum maktarmaður mikill og kynsæll.

## 4. Norðmæri.

Hún liggur beggja megin Þrándheimsfjarðarmynnis, og fylgir þar eyjaklasi mikill. Þar eru orustustaðirnir *Sólskel*, *Rastarkálfur*, og fl. Af N.Mæri var *Jörundur háls*, mágur Ingimundar gamla, og þaðan var ríkmennið *Hrollaugur* sonur Rögnvalds Mærajarls og hans lið. Hrollaugur nam land í S.-Múlaþingi, en færði síðan aðalbygðir sínar suður í Skaftárþing. *Einar*, dóttursonur Torf-Einars jarls og frændi Hrollaugs, nam Axarfjörð, og enn má telja þá *Molda-Gnúp* og *Vémund* bræður. Þeir voru vígamenn miklir og járnsmiðir, sbr. kviðling Vémundar:

Ek bar einn af ellifu
banaorð. Blástú meir.

Þeir urðu fyrir hrakningum miklum í Skaftárþingi, og lentu loks suður í Grindavík. Urðu þeir þar bæði auðsælir og kynsælir, þótt bæði væri taldir hamramir og ófreskir, og „þat sá ófreskir menn, at landvættir allar fylgdu Hafur-Birni til þings, en hinum sonum Molda-Gnúps til veiðar ok fiski“, segir landnáma.

## 5. Sunnmæri.

Þaðan er, að ég hygg, ekki nefndir landnemar nema *Dýri*, göfugur maður; hann nam fyrstur Dýrafjörð, sem síðan ber nafn hans.

Hvortveggji mærin eru láglend, allfrjósöm og arðsöm, einkum til sjávar. Fjallbygðin yfir Sunnmæri og Raumsdal er hin stórfeldasta í öllum Noregi, svo engin gleymir þeirri fjallasýn, er einu sinni hefur séð hana

er siglt er fyrir Stað. Þar eru og örnefni mörg og frægir staðir, svo sem stórbýlið *Gizki*, og staðurinn *Borgund*. Þar úti fyrir er opið haf, og heitir þar að fara fyrir Stað. Það er á Sunnmæri. Milli Mæranna upp í fjöllin skerst fylkið

## 6, Raumsdalur.

Þaðan kom *Ingimundur hinn gamli*, einhver hinn ágætasti og hugþekkasti allra vorra frægu landnámsmanna. Ingimundur var forlagamaðnr mikill, og svo voru niðjar hans Vatnsdælir; var það hvorttveggja, að hann kom úr hinni stórfeldustu fjallbygð Noregs, enda hlaut hér að lokum valin bústað nærri hjartastað hins nýja lands. Á honum sannaðist, að enginn má sköpum renna, en nokkuð er saga hans forneskjuleg, og verða menn að lesa hana sjálfa í Vatnsdælu og Landnámu. Hann barðist með Haraldi konungi í Hafursfirði og voru þeir ástvinir síðan. Úr Raumsdal var og *Ásgerður* amma Njáls, en fleiri eru ekki nefndir úr því fylki, því að ekki var Ketill flatnefur þaðan, þótt Laxdæla segi svo.

## 7. Firðafylki (og Fjalir).

Með Fjörðum byrjuðu hin eiginlegu Gulaþingslög. Eru aðalsveitirnar Norðfjörður og Sunnfjörður, er skerast inn til fjalla og bera svip af Sunnmæri og Raumsdal. Syðsti hluti fylkisins hét Fjalir, og var þar blótstaðurinn *Gaular* norðanvert við mynnið á Sogni, og andspælis *Gulu* á Hörðalandi, þar sem Gulaþing var haldið.

Úr Fjörðum komu nokkrir vorra frægustu forfeðra. Má fyrsta telja þá *Ingólf* og *Hjörleif*, og þarf ekki að

fjölyrða um þá hér. En þaðan kom líka mótstöðumaður þeirra *Hásteinn* Atlason jarls, og nam land í næsta þingi við Ingólf, er síðar varð; hann bygði neðri hluta Flóans. Þriðja stórmennið var *Skallagrímur* og hans lið. Þarf ekki hér að lýsa landnámssögu neinna þessara. En um Skallagrim má segja, að það hafi verið mikið lán þjóð vorri og bókmentum, að slíkt meistaraverk sem Egilssaga er, skyldi verða rituð á gullöld sagnaritara vorra og af sjálfum Snorra Sturlusyni, eins og próf. B. M. Ólsen virðist hafa fært nægileg rök fyrir. Frásagan um afrek Sk.-Gríms, búsæld, framsýni og landnámsstjórn er einkum aðdáanlega vel rituð saga. Og svo kvæði *Egils* og æfisaga! Hann er sá eini maður frá 10. öld, er enn talar við oss lifandi og ódauðleg orð frá Íslands bernskutíð. En lýsing sagnanna á skapferli hins stórfelda Egils hefur að ýmsu skekst og blandast forneskjumenjum; kemur það í ljós er vér lesum niður í kjölinn hið bezta (persónulegasta) í kvæðum hans, og hefur Egill verið æðilangt *á undan* sinni tíð. Hann einn af öllum eldri fornskáldum og fram á daga Sighvatar skálds hefur haft djúpsettar skoðanir á ævarandi manngildi og siðferðiskostum. Hefði ekki hið mikla Mýramannakyn komið til sögunnar, hefði glæsilegasti kafli allrar fornsögu vors lands aldrei verið ritaður, og það þótt enginn niðja Egils yrði hans jafningi í sameining óðsnildar og mikilmensku. — Enn má nefna þrjá mjög merka landnámsmenn úr Fjörðum, þá *Loft hinn gamla*, er Loftsstaðir í Árnessþingi eru við kendir; hann var mágur Ingólfs. Með honum kom út frændi hans *Flosi hinn gaulverski*, er land nam á Rangárvöllum. Þeir vóru blótmenn miklir, eins og Ingólfur. Og loks voru þaðan þeir *Hrosskell Þorsteinsson*, stór-

ættaður maður, er nam Hvítársíðu og var forfaðir Gilsbekkinga; og *Skjöldólfur* bróðir Berðlu-Kára. Hann bjó á Skjöldólfsstöðum á Jökuldal. Um landnám úr Fjörðum segir Munch, að svo megi segja, að það hafi náð yfir landspilduna frá Mýrum austur að Markarfljóti. Má það til sanns færast, þó að ótal aðrir fyltu upp í eyðurnar.

## 8. Sogn eða Sygnafylki.

Sogn er afar stórfeld fjarðarbygð, með háar snarbrattar forngrýtishlíðar, svo víða sézt hvorki skógur, grashlíðar né grónar strendur, en í víkum og þverdölum beggja vegna hins langa fjarðar eru aftur góðir landskostir með kornekrum og laufviðarskógum. Þverár allar marka lítið fornberg fjallanna og blika við sem bjartir silfurlindar, og er hver hamrahlíð því líkust, sem slegin sé og klöppuð Þórshamri. Fjörðurinn er nærfelt 20 mílna langur og er allmjór þegar innar kemur. Eru þar fellibyljir tíðir, rýkur þá Sognsær, en blæjalogn á milli bylja, sem skáldið Wergeland kvað:

„Lágstu milli helju og heims,
hári þulur árum bogni?
Hefurðu strítt í stormi og logni,
staddur inst í gamla Sogni,
hömrum luktur hrikageims?“

Úti fyrir Sognsæ liggja eyjarnar *Sóʼundir*. Þar veiddu þeir Kvöldúlfur þá Hallvarð og Sigtrygg og drápu í hefnd eftir Þórólf. Ótal söguslaðir eru í Sogni, eins og Fimreitur, þar sem Sverrir yfirsteig Magnús Erlingsson, Örland og dalirnir, t. d. Læradalur og Sóknadalur með *Kaupangi*. — Úr Sogni fluttist hinn ríkasti ættbogi er Ísland bygði: ættmenn *Bjarnar bunu*, eink-

um *Ketils flatnefs*, sonar hans. Því miður hafa framættir ruglast í minni manna, áður en sagnaritunin hófst (á 12. öld). Og ekki hafa höfundar Laxdælu, er segir mest frá Auði Ketilsdóttur djúpúðgu og niðjum hennar, vitað með vissu bústað Ketils, né heldur ætt Ólafs hvíta, bónda Auðar. Þó hafa munnmæli um hinn nafnfræga höfðingja lengi geymst í ættum hans, eins og ummæli hans um Ísland: „Aldrei kem ek í veiðistöð þá á gamals aldri.“ Hitt er einmælt, að hans kynsmenn hafi orðið hamingjumestir og kynsælastir allra landnámsætta. Breiddust þeir og þegar á landnámstíð út um endilangt Ísland með *Þórði skeggja* austur í Lón, með *Katli fíflska* um Skaftárþing, með *Þórunni hyrnu* um Eyjafjörð og Kelduhverfi, og með *Auði* og bræðrum hennar um Vestfirði og Suðurland. *Helgi bjólan* og *Örlygur* hinn gamli bygðu Kjalarnes, *Björn hinn austræni* bjó í Bjarnarhöfn, nærri Þórólfi Mostrarskegg, en hans synir mægðust við *Auði*, en sjálf nam hún Dali og bjó í Hvammi. Hún var langamma Þórðar gellis, en Snorri goði var 4. maður frá henni, en Ari fróði 8.

Auk niðja Ketils og bræðra hans Helga og Hrapps, kom úr Sogni *Sæmundur hinn suðureyski* fóstbróðir Ingimundar, sá er nam Sæm.hlíð; *Vébjörn Sygnakappi* og þeir frændur, er land tóku á Ströndum og héldust þar vetrarlangt í skjóli Atla, þræls Geirmundar heljarskinns; *Gunnólfur gamli*, er nam Ólafsfjörð á móts við Ólaf bekk; bræðurnir *Eilífur* og *Björn*, er námu land á Rangárvöllum, *Ævar hinn gamli* var einn, sá er nam Langadal. Hann var sonarson Haraldar konungs gullskeggs, og var forfaðir Æverlinga í Húnaþingi; var Hafliði Másson 4. maður frá honum. *Þórólfur fasthaldi* var enn úr Sogni, vinur Haraldar hárfagra.

Hann nam heldur kalda vist og bjó á Snæfjöllum. Þannig dreifðust Sygnir víða út og hlutu misjafna bústaði, en ekki er þess heldur getið um þá, að þeir yndi illa umskiftum sínum.

## 9. Hörðaland.

Það er víðlent fylki og er nú 2 umdæmi, enda skiftist snemma í Norð- og Sunnhörðaland. Nyrðri hlutinn er heldur hart land og hrjóstrugt, alsett fjallháum fellum (eins og í kringum bæinn Björgvin), skorningum og sundum, bygð víða strjál og glyttir víða í grábergið milli gisinna grenitrjáa. Liggur nú hin nýja járnbraut austur yfir fjallgarðinn, suður fyrir og kringum fjöllin yfir Björgvin, síðan upp með örmjóum firði, svo alla leið upp á Vors; er þá byrjað fjalllendið. Vors er dáfögur og frjó fjalladæld, miðja vega milli Sogns- og Harðangursfjarða, og sjást fjöllin hálf frá Vors beggja vegna niður í miðjar hlíðar og skína við skaflar og jöklar. Á Vors er fræg ferðamannastöð og akvegir góðir niður til fjarðanna. Upp frá Vors taka við óbygðir og síðast jöklar uns komið er austur af niður í Haddingjadal. Er brautin hið mesta mannvirki, er unnið hefur verið á Norðurlöndum. Mundi Hörða-Kára og ættmönnum hans heldur bregða í brún mættu þeir sjá frá kumblum sínum hvar eimlestirnar renna daglega, þótt hávetur sé og drápsveður, gegnum ótal berggigi þvert yfir Löngufjöll! Harðangur og eyjar margar og frjóar eru á Sunnhörðalandi, og þykir ferðamönnum hvergi fegra um að litast en þar, og einkum í innanverðum Harðangri, þar sem *Oddi* heitir; stendur sá bær í laufviðarlundi beint undir jöklinnm *Fúlgufönn.* Af eyjum fyrir Hörðalandi má nefna *Ask,* þar sem Egill

skildi við mág sinn Bergönund, en sunnar liggja *Storð* og *Mostur*, báðar alkunnar af sögunum. Af norskum fornbæjum má nefna *Alreksstaði*. Þar er nú bærinn Björgvin; nyrðst er *Gula*, þar sem þingið var haldið; *Sæheimur*, *Lygra* og *Stuðla* voru og höfðingjasetur.

Af landnámsmönnum úr þessu fylki má marga nefna: ***Þórólf Mostrarskegg***, einhvern einkennilegasta landnámsmann, er hingað flutti, og er saga hans nærfelt eins fróðleg eins og Skallagríms; ***Þórð Víkingsson***, er sumir kölluðu son Haraldar hárfagra. Hann nam land í Dýrafirði og var höfðingi mikill, var kona hans Þjóðhildur systir Helga magra; 3. var ***Þórormur*** úr Alviðru, er land nam í Holtum í Rangárþingi; 4. ***Eyvindur hörzki***, er land nam norður í Reykjadal og varð kynsæll; 5. ***Hallvarður súgandi***, félagi Önundar tréfótar, nam Súgandafjörð; 6. ***Önundur breiðskeggur***, afi Tungu-Odds, er nam Hálsasveit í Borgarfirði; 8. ***Hrafna-Flóki***, sá er Íslandi gaf nafnið; hann flutti síðar alfari hingað til lands og nam Flókadal í Fljótum; 8. ***Þorsteinn hinn hvíti***. Hann var merkur maður og göfugur, kom seint út og keypti Hofsland í Vopnafirði af syni Eyvindar vopna, er þar nam áður land. Hann bjó 60 vetur að Hofi og var forfaðir Vopnfirðinga og afi Broddhelga. Af Vors voru þeir ***Özur hinn hvíti*** og ***Þorviður*** tengdafaðir hans, og kölluðu því bæ sinn Vorsabæ; þaðan var og ***Böðvar hinn hvíti*** afi Síðu-Halls; hann bjó að Hofi í Álftafirði. Og enn voru af Vors ***Þórir hinn hávi*** og ***Krumur***, er land námu við Reyðarfjörð. Og enn eru ónefndir þeir ***Loðmundur hinn gamli*** og ***Bjólfur*** bræður. Við Bjólf er kent fjall í Seyðisfirði, þar yfir sem hann bjó, en Loðmundur nam fyrst fjörðinn, er við hann er kendur,

en flýði þaðan fyrir jarðusla og flutti suður fyrir Sólheimasand og bjó á Sólheimum. Hann var fjölkunnugur og átti í deilum við Þrasa í Skógum, hinu megin Jökulsár, er og var ramaukinn, og vann hvorigur á öðrum.

## 10. og 11. Rogaland og Agðir.

Fyrir sunnan Harðangur taka fjöll að lækka og má kalla suðurhluta Rýgjarfylkis og meginið af N.-Ögðum láglendi; er Jaðar og Listi aðalhéruðin er suður dregur. Er þar víðast opið haf fyrir er siglt er þjóðleið; þótti því hættuför fyrrum að fara þá leið þegar haust og vetrarstormar tóku til, eins og vísa Þjóðólfs í Hvini sýnir, er hann kvað við Guðröð ljóma fóstra sinn, son Haraldar hárfagra: „Verit með oss uns verði veður, nú's hvast fyrir Jaðri“. Nú er hættan minni á þeirri leið, því að hvervetna blika vitar við og dýpi merkt og stikað. Þó fórst þar nýlega nýtt og skrautlegt strandferðaskip, um nótt um jólaleytið og týndust margir menn. Þegar komið er móts við norðurenda Jaðars, nál. 20 mílur frá Líðandisnesi, blasir við *Sóli* á lítilli hæð. Þar bjó Erlingur Skjálgsson. Skamt þar frá gengur vogur inn. Það er hinn forni Hafursfjörður, þar sem Haraldur hárfagri síðast barðist til ríkis í Noregi, 872.

„Heyrði í Hafursfirði
hvé hizug barðisk
Konungr enn kynstóri
við Kjötva hinn auðlagða“,

kvað Hornklofi. Ætla sumir nú, að sá „Kjötvi“, hafi enginn annar verið en Guðröður Agðakonungur, en „Þórir haklangur“, Ólafur sonur hans, hinn hvíti, kon-

ungur í Dýflinni. Virðist það þó undarlegt, en víst er það, að írskir samtíma-annálar kalla Ólaf *Guðröðarson*, og segja, að hann hafi vestan farið með her til hjálpar föður sínum í Locklan, þ. e. Noregi, og geta hans ekki framar. Væri nú þessi ályktun rétt, eins og sú röksemd, að þeir Þorgils og Fróði, höfðingjar í Dýflinni, hafi ekki verið synir Haraldar hárfagra, þá virðist enn fleiri fornsögnum vorum sé hætta búin, t. d. um faðerni Gunnhildar konungamóður, saga Göngu-Hrólfs, o. fl. En víkjum aftur að efninu. Þegar siglt er fram hjá Stafangri fríkkar mjög útsýnið, brosir þá við fagur fjallahringur, sem fer æ hækkandi norður undir Harðang, og skín þar fyrst í skafla og jökla að sumri til. Og er kemur inn fyrir Bóknarfjörð tekur við eyjaklasi, og má þar fara innleið úr því alla leið norður að Sunnmæri, 50 mílur eða meir. Er fyrst eyjan *Körmt* með konungsbúinu forna *Ögvaldsnesi*, þá er farið Haugasund og fram hjá bæ þeim, er nú heitir svo; er sundið svo mjótt, að varpa má steini til lands beggja megin frá skipsborði. Í Haugasundi hvílir Haraldur gamli hárfagri, og nú undir þjóðvarða þeim, er Norðmenn reistu honum 1872. Verður hér og varla farið eyjasund svo sögufróður Íslendingur kannist ekki við örnefni eða orustustaði, því óvíða í Noregi var jafn herskátt sem um þessi svæði. Þarna eru „Tungur“, þar sem Erlingur féll og Sighvatur kvað um:

„Öll vas Erlings fallin —
ungr fyr norðan Tungur
skeið vann skjöldungr auða, —
skipsókn við þröm Bóknar;
einn stóð sonr á sínu,
snarr Skjálgs, vinum fjarri,

í lyptingu lengi
lætrauðr skipi auðu.“

En sér í lagi mátti kalla Rogaland ófriðarstaði meðan víkingaöldin stóð sem hæst, og var því ekki kyn þótt héðan leituðu margir af landi brott, einkum þeirra, er hvorki áttu friðland heima á óðulum sínum né heldur fyrir vestan haf; úr þessum fylkjum flutti því fjöldi ríkra manna, og mest til Íslands, enda hávaði þeirra annaðhvort beint úr Vesturlöndum, eða eftir skamma dvöl í átthögum sínum. Mun mörgum þeirra er flýðu Rogaland og sáu fyrst deili á ströndum Islands hafa dottið líkt í hug eins og *Önundi tréfót*, er héðan var ættaður:

„Kröpp eru kaup, ef hreppik
Kaldbak, en læt — akra.“

En fyrsta ber að nefna, þeirra er héðan fluttu, bræðurna *Heljarskinn*, er komnir voru af Hálfsrekkum, eins og kunnugt er. Með Geirmundi, er bar konungsnafn, fylgdi heill floti af frændum hans og flestir úr þessum fylkjum. Sigldu þeir fyrir opinn Breiðafjörð, og fréttu skjótt að numdar voru hinar syðri strendur flóans, svo og Dalir. Lentu þeir því í vestri hlutanum og skiftu þar landnámum með sér, bjó Geirmundur á Geirmundarstöðum (nærri Skarði), *Steinólfur hinn lági* þar innar frá á ströndinni, og þótti báðum þrönglent. *Úlfur skjálgi*, nam Reykjanes og var einna göfgastur af frændum Geirmundar. Hann átti Björgu systur Helga magra, og var frá þeim komið hið fræga Reyknesingakyn. *Geirleifur* frændi Ulfs nam Barðaströnd; hann var afi Gests hins spaka. *Þrándur mjóbeinn* bjó í Flatey, en *Örn* nam Arnarfjörð, en flutti síðan í nábygð við *Hámund heljarskinn*, er komið hafði út með Helga magra mági sínum. Hann bjó fyrst á Hámundarstöðum, en síðan

á Espihóli. Og enn bættust við í Breiðafirði þeir *Gils skeiðarnef*, er land nam inst i Gilsfirði, *Oddur skrauti*, faðir Gullþóris, er bjó í Skógum, *Hallsteinn goði* sonur Þórólfs mostrarskeggs, *Þorbjörn loki*, forfaðir Sturlunga, og loks, *Ketill gufa*, er mægðist við Geirmund heljarskinn. Var þá engin stórbygð á Íslandi jafnmörgum höfðingjum skipuð sem Breiðifjörður. Þá kom og margt lið af Ögðum, og er þó erfitt að greina hvaðan hverjir voru. Eru helstir þeirra ættmenn Ölvers barnakarls og frænda hans Öndótts kráku. Má fyrstan telja *Þormóð skafta*, langafa Skafta lögsögumanns; *Bröndólf* og *Má*, er forfeður urðu margra ágætra manna, eins og Hjalta Skeggjasonar og Halls í Haukadal, fóstra Ara. Þessir námu allir efri hreppa Árnessþings. Síðast flutti í nágrenni þeirra frænda sinna *Ásgrímur Öndóttsson*, er áður nam Kræklingahlíð í Eyjafirði, og var afi Ásgríms Elliðagrímssonar. Af Ögðum voru þeir *Álfur inn egðski* og *Þorgrímur* frændi hans. Þeir námu fyrstir Ölfus í Árnesþ. *Auðúlfur* var og þaðan, sá er bjó á Bægisá og mægðist við Helga magra. Ýmsir niðjar Yxna-Þóris, aðrir en Naddoðarsynir, komu til Íslands, svo sem *Kráku-Hreiðar*, er nam Tunguna í Skagafirði, og *Eysteinn Rauðúlfsson*, er bjó að Lóni við Eyjafjörð. Enn kom af Ögðum *Þorvaldur að Dröngum*, faðir Eiríks rauða, er Grænland fann. Loks má nefna *Þóri Grímsson gráfeldarmúla*, er nam Ljósavatnsskarð, og var afi Þorgeirs góða, lögsögumanns. *Böðólfur Grímsson* var einn, afi Þóris úr Garði, hann nam Tjörnes. Víða hlutu Rýgir og Egðir bústaði á Íslandi, og án efa misjafna að kostum, enda mun hvergi hafa orðið jafnmikið los á ríkismönnum í Noregi sem einmitt í þeim fylkjum. Voru og flestir menn, er þaðan

voru, útlagar Haralds konungs eða komu vestan um haf, eftir herferð hans þangað. Einkennilegt er hvað fárra hamramra eða forneskjumanna er getið meðal landnámsmanna úr suðurfylkjum Noregs, og þó enn síður meðal þeirra, er höfðu hafst við vestur í löndum, voru og ýmsir þeirra blendnir orðnir í trúnni, þótt lengst allra goða héldi þeir við Þór, líkt og Helgi magri, þótt kristinn væri kallaður, eða Kráku-Hreiðar. Mest sópaði að því mannvali, sem Breiðafjörð bygði. Ólust og brátt af þeim spekimenn, skáld og skörungar til forræðis. Má fyrstan nefna Þorstein surt, sonarson Þórólfs Mostrarskeggs, þann er fann "sumaraukann"; varð hann fyrstur spekinga í fornum sið, en næstan honum má telja Gest Oddleifsson í Haga, Ljót hinn spaka, og Ósvífur föður Guðrúnar. Elztu skáld Vestfirðinga, annan en Egil, má telja þá Glúm Geirason og Einar skálaglam bróður Ósvífurs, en af skörungum til landstjórnar er nóg að nefna þá Þórð gelli og Snorra goða. Bregst ekki að á þeim dögum hafi verið mikið mannval uppi á landi hér — þrátt fyrir öll vígaferlin og vandræðin. Nýbygt víkingaland, vegalaust og torvelt, skipt á milli hundrað höfðingja, er hver varði sitt rúm með oddi og eggju, hefur ekki verið hægðarleikur að friða og siða á svipstundu, eða að skapa jafnvægi milli allra og hafa þó hvorki konung né jarl og — ekkert allsherjarvald! En þetta skal betur athuga síðar, en hér skal telja landnema úr öðrum landsálfum Noregs.

## 12. Landnámsmenn af Upplöndum, úr Vík austur, og enn annarstaðar frá.

Yfirleitt voru þeir fremur fáir, er land námu og og ekki voru kynjaðir úr vestanverðum Noregi. Einn

hinna merkustu var *Selþórir Grímsson;* hann var úr Haddingjadal, ættfaðir Rauðmelinga. Landnámssaga hans og Gríms föður hans, er kostuleg þjóðsaga, og vísast hér beint til Landnámu[1]). *Þórir Grímsson,* alnafni Selþóris og frændi, leitaði einnig til Íslands og tók land í Flóanum í Árnessþ. *Dala-Kollur Veðra-Grímsson* ætla menn og að þaðan hafi verið; hann var af ætt Ása hersis og varð félagi og mágur Auðar djúpúðgu. *Björn,* er kendur var við Reyni í Skaftárþ., var af Valdresi; „hann var auðugr og ofláti mikill", segir Landnáma. Af Vestfold í Vík austur var *Kolbeinn,* sá er nam Kolbeinsdal í Skagafirði; hefur hann, sem flestir, er bygðu þær sveitir, hlotið ólíka landkosti hinum fyrri. Þeir bræður *Þorsteinn tjaldstæðingr* og *Þorgeir,* sá er keypti Oddalönd af Hrafni Hængssyni, námu báðir land á Rangárvöllum. Þeir voru af Þelamörk. Úr Vík austan kom *Bálki Blængsson,* er fyrst tók lönd í Hrútafirði. Upplenzkir voru þeir *Brúni,* er bygði norður í Fljótum, og *Þrasi* í Skógum undir Eyjafjöllum, er deildi við Loðmund gamla.

* * *

Nokkra *sænska* landnámsmenn, suma stórmerka, verður og að nefna, þótt óvíst sé um suma, hvaðan voru. Fyrstan má telja hinn kynsæla *Höfða-Þórð,* er talinn var sænskur og 4. maður frá Ragnari „loðbrók". Hann nam Höfðaströnd í Skagafirði, telur Landnáma

---

1) Um Selþórir bætir landnáma við þeirri sögu, „at þá var hann gamall ok blindr, er hann kom út um kvöld ok sá at maðr reri utan i Kaldárós, á járnnökkva, mikill ok illiligr, ok gekk þar upp til bæjar þess er í Hripi hét ok gróf þar í stöðulshliði, en um nóttina kom þar upp jarðeldr, ok brann þá Borgarhraun". Þeir frændur dóu í Þórisbjörg.

19 börn hans, og rekur ættir frá mörgum þeirra. Annar var *Sléttu-Björn*, er land nam í Sléttuhlíð. Um hans ætt er alt óvissara, en með engu móti getur hann hafa verið dótturmaður Steinólfs lága, en afi Bolla fóstbróður Kjartans. *Þórður knappur*, er nam Stífluna í Fljótum, og *Friðleifur*, er land nam þar nærri, töldust og sænskir. Eins er líklegt að *Hjalti Þórðarson skálps* er nam Hjaltadal, hafi sænskur verið, því Þorvaldur sonur hans fór snemma til hirðar Svíakonungs. Voru þeir frægir menn og vellauðugir. Það erfi varð frægast hér á landi, er Hjaltasynir buðu til boðs 1200 manna (og það meðan landið var varla hálfbygt). Um Hjaltasonu er vísan: „Manngi hugði manna“, er segir að engir hugðu annað en „æsir almærir þar færi“, er þeir gengu á Þorskafjarðarþing. *Helgi magri* var og sænskur í föðurætt. Um *Una hinn danska* er óvíst hvort danskur var eða hvaðan, en ýmsir töldu fram ættir sínar til danskra konunga. *Steinn* danski er og nefndur, en beinlínis er enginn aldanskur landnámsmaður talinn.

Loks telur Landnáma nokkra írska og skotska (keltneska) landnema — auk mansmanna — er numið hafi hér land; voru þó hinir helztu þeirra, að sjá, kynblendingar, svo sem þeir *Bresasynir* Þormóður og Ketill, er námu Akranes. Þeir *Avangur*, *Kalman*, *Ásólfur* og *Bekan* bygðu allir í Borgarfirði, *Vilbaldur* og *Áskell* hnokan og *Steinröður* bjuggu sunnar í landinu. Þá *Erp* og *Hunda*, leysingja Auðar má og kalla landnámsmenn. Bar það stundum við, að þrælar og ambáttir bæri af húsbændum sínum að ættgöfgi og íþróttum; urðu og mansmenn snemma leysingjar, og snemma dró hér úr þrælahaldi, og mest fyrir þá sök, að viðkoman fór minkandi með hernaðinum, enda stakk það

illa í stúf við frelsi og jafnrétti hins nýja þjóðfélags; munu margir hinna betri bænda hafa snemma séð, að betra var að búa við frjálsa menn en ófrjálsa; mun þrælum hafa mjög fækkað hér á 10. öld og horfið nær alveg úr sögunni á hinni 11. öld. Mörg og misjöfn dæmi hafa sögurnar geymt oss um hina elztu ánauðugu íbúa þessa lands, er oftast þrifust illa, en stundum bar göfugt manneðli sér fagurt vitni, og þarf ekki að nefna nema dæmi Melkorku og annara stórborinna karla og kvenna; er og nóg að minna á þræla Víga-Glúms, er lögðust á hann fallinn á Hrísateig og björguðu svo lífi hans, eða dæmi Skíða í Svarfdælu. Geirmundur heljarskinn kunni og að gera dáðarmenn úr þrælum, líkt og Erlingur Skjálgsson, meir en öld síðar, og að slíkra höfðingja dæmum hefur fjöldinn snemma farið; var það og orðtæki manna, að ilt væri að eiga þræl fyrir einkavin eða eiga líf sitt undir þeim, það varð Hjörleifi, það varð Glúmi, manni Hallgerðar, og það varð Þorsteini Síðuhallssyni. Eins fór öfugt og hraparlega þegar þrælar voru gerðir flugumenn og sendir til höfuðs mönnum, dró það sem annað til þess, að sú ljóta stétt féll um sjálfa sig.

* * *

Vér höfum nú í fljótu máli farið yfir landnámssögu Norðmanna eftir fornri fylkjaröð, og skal nú bætt við fáeinum athugasemdum. Eins og tekið hefur verið fram, virðist allur þorri landnemanna hafa allvel unað hinum nýju kjörum sínum og landkostum, og það þótt nokkuð misjafnlega tækist með val bygða og bólstaða, því að mjög hafa margir átt undir högg að sækja er þeir komu að landinu, hinir fyrri landnámsmenn fyrir sakir ókunnleika, en hinir síðari sakir landþrengsla og

annara annmarka, eða óvildar þeirra, er áður höfðu eða kölluðust hafa numið eða eignað sér löndin. Er Landnáma auðug af þeim sögnum um hinn elzta nábúakrit á Íslandi. Stundum bar við, að menn flytti eða færðu út bygðir sínar til vænlegri stöðva, eins og þeir Austfirðingar Brynjúlfur gamli, Loðmundur gamli og Hrolllaugur, Þórir snepill eða Vestfirðingarnir Geirmundur, Steinúlfur lági, An rauðfeldur og fl., aðrir skoruðu þeim sem fyrir bjuggu á hólm til landa eða landskifta, eins og Þórólfur bægifótur, Hallkell, sem feldi Grím í Grímsnesi, og Hrollaugur afi Gríms lögsögumanns. Þó varð sá ofstopi aldrei tíður né vinsæll eins og dæmi Kráku-Hreiðars sýnir; hann vildi berjast til landa við Sæmund hinn suðureyska, en Eiríkur í Goðdölum taldi hann af því, og hvað slíkt óhent meðan svo mannfátt væri í héraði; gaf svo Hreiðari Tunguna. En þótt þessar og þvílíkar misfellur yrði um landnám, og það svo, að allmörg vígaferli fylgdi, svo að ýmsir yrði að búa við skarðan hlut, þá jafnaðist það smásaman. Og eitt er víst, að hvergi er þess getið, að nokkur maður, sá er numið hafði hér land og sezt að sínu, hafi viljugur, þótt skip ætti og hvergi sökótt, kvatt Ísland aftur og flutt sig aftur búferlum til Noregs eða annara landa. Sýnir þetta, að mönnum muni þótt hafa landið eins vel byggjandi sem önnur lönd, eða þá sérkostir þess bæta upp það sem miður þótti. Munu margir hafa þóttst fengið ærið nóg af ófriði og ofríki, jafnvel eins fyrir vestan haf. Hér var fullur friður og víðast hin mesta gnótt til atvinnu, þótt land væri hart, óyrkt, skóglítið, eldi þrungið og ógnum ísa og hallæra, en aðflutningar erfiðir og hernaður eða rán því nær óhugsandi. Beztu dæmin til að sýna, hve vel jafnvel hinir frömustu höfðingj-

ar undu vel skiftunum, eru þeir ástvinir Haraldar hárfagra, þeir Hrollaugur af Mæri og Ingimundur gamli; báðir munu þeir hafa átt kost á, að hverfa aftur og þiggja hin mestu vilkjör í Noregi. Sama dæmið gefur *Þórólfur fasthaldi*, vinur konungs, og lenti hann þó á hinum köldu og afskektu Snæfjöllum. Úr Þrándheimi fluttu að vísu fáir stærri menn svo vér vitum, enda eru þar góð lönd og um þær mundir föst stjórn þar og friðsöm í skjóli hinna ríku Hlaða-jarla. Er þó því fremur eftirtektarvert, að þaðan komu nokkrir maktarmenn, líklega óneyddir, þeir Hrafn hinn heimski, Ketill þrymur og bróðir hans, og líklega Brynjúlfur gamli og bræður hans. Hefur þeim að líkindum ekki gengið annað til útfarar en eigin fýsn og góðar afspurnir af landinu. Annars er landnámssaga Austfirðingafjórðungs nokkru ógleggri en annara fjórðunga, eins og sjá má af Íslendingasögu B. Melsteðs. Af landnámsmönnum þess fjórðungs eru einungis taldir 15 þeir, sem vér vitum um hvaðan voru úr Noregi og hvað feður þeirra hétu, en um 60 eða fleiri þeirra, sem námu Vestfirðingafjórðung vitum vér þau deili; nokkrir færri eru oss jafnkunnir þeirra er hina fjórðungana námu, eða rúmir 50 í hverjum; stundum sogja og ættir til og fleiri smáheimildir. Alls telur B. Melsteð 414 landnema á Íslandi, og eru þá meðtaldir nokkrir synir landnámsmanna, þeir er sjálfir námu sér land, svo og ýmsir minni háttar menn, er lönd fengu hjá húsbændum sínum, og þó einungis hinir helztu. En ekki *feðrar* landnáma fullan helming landnámsmanna; enn 170 er ekki getið hvaðan þeir hafi verið kynjaðir. Af Vesturlöndum er talið að sjötti hver landnemi hafi komið. Um tölu eða fjölda þess fólks, er bygði Island þangað til lokið mátti heita landnám-

um, vita menn ógerla, en líklegt virðist að sú fólkstala hafi náð nærfelt 25 þúsundum. En úr því og fram undir kristnitökuna má ætla að sú tala hafi tvöfaldast, og svo síðan þrefaldast, er dró að dögum Sturlungaldarinnar. Ari fróði segir, að landið hafi orðið albygt á 60 árum, en það er nú skilið svo, eins og staðið hefði *alnumið*, því lengi eftir það vitum vér, að ófáir menn komu hingað út og fengu sér bústaði, jafnvel framyfir miðja 10. öld. Um þær mundir er lokið var landnámum, eða um 930, var alþingi sett þar sem Geitskör kaus þingstaðinn og lög þau stofnuð, er Úlfljótur samdi í Noregi með ráði Þorleifs hins spaka, og mjög eftir því, sem Gulaþingslög voru. En meir en 30 ár liðu eftir það þangað til landinu var skift í fjórðunga og dómar settir á þingi fyrir hvern fjórðung fyrir sig, tala þinga ákveðin í fjórðungi hverjum og goðorðatala í þingi hverju, svo og dómnefna eftir réttu hlutfalli. Er sú stjórnarbót kend við Þórð gelli.

Hinn mesti sægur af körlum og konum, þeirra er lifðu á landnámstímanum, er oss geymdur í Landnámu, svo og fjöldi sagna og munnmæla; en alt fyrir það er alt mjög í molum það sem vér vitum um einstaka menn og allan þann lýð yfir höfuð að tala. Af fáeinum vísum og vísuorðum frá þeim tíma er lítið að græða nema helzt eitthvað hjátrúarkyns. Má svo segja, að hvorki heyrum vér sem nú lifum, „öxar né hamars högg“ af bygging alls þessa lands, — rétt eins og það ógnarverk hefði steinþegjandi unnið verið.

## III.
## Enn um landnámstíðina og stofnun þjóðveldisins.

Fögur og fróðleg bók er Landnáma — eins fyrir það þótt hún sé engin listarsaga, heldur öll bygð á arfsögnum, hvert landnám tekið út af fyrir sig og farið hringinn í kringum landið eins og það lá fyrir minni manna áður en því var skift í fjórðunga, þótt svo sé gert í Hauksbók, sem dró hinar eldri landnámubækur saman í eina (Styrmisbók, Melabók og Sturlubók). Svo margir fræðimenn hafa unnið að þeirri Landnámu, er til vor er komin, að elztu frumhöfunda hennar þekkjum vér ekki, nema Ara hinn fróða (og þó ekki með fullri vissu) og Kolskegg hinn fróða; Sæmundur hinn fróði er einn, og fl. eru til nefndir sem heimildarmenn. En hvernig sem þessi merkilega bók er tilorðin, er hún eitt hið allra merkasta fornrit, sem feður vorir hafa eftir látið oss. Engin fornbók er betur löguð til að vekja námfýsi og þjóðrækni uppvaxandi manna; hún sýnir þeim, að þar er að fæðast þjóð, þeirra eigin þjóð og þjóðerni, alt er svo nýstárlegt eins og vorsól renni úr sævi. Og svo eru mennirnir svo stórfeldir, þeir sem stefna að hinu nýja landi! Vorblær er yfir öllu og þó fylgir frásögnunum eitthvað svo dularfult og örlagaríkt, að furður og fyrirboðar vakna fyrir hugskotsaugum vorum. Þarna varpar Ingólfur öndvegissúlum sínum í hafið — hvað skyldi það tákna? Þarna er kista Kvöldúlfs látin síga fyrir borð — hvar skyldi hún lenda? Urðarorð óma í lofti. En hins vegar er karlmenskan, trúin á „mátt sinn og megin“, trú hins þroskaða hreystimanns, sem hvorki kann að hræðast né hopa á hæl

fyrir öðru en ef vera skyldi hinum æðstu goðmögnum, en hver voru þau? Og svo taka við hinar ljómandi landnámssögur, fullar af framúrskarandi dáð og framsýni, saga hins vitra Ingólfs, Ketils hængs með kappakyn hans hið mikla, saga hins stórfelda Skallagríms, saga hinna göfugu Breiðfirðinga, saga hins mikla öldungs Ingimundar gamla, saga Helga hins magra, hins hamingjusama stórmennis, saga Þorsteins hvíta og Hrolllaugs ríka af Mæri — saga allra þessara stórmenna og ættfeðra, sem komnir voru utan úr stormum ófriðar og ofstopa til að finna hér frið og frelsi og skapa nýja og betri sögu og siðmenning,

„þegar andans úr óminni
sögusól signandi rann.“ —

Milli línanna lesum vér hvernig hið nýja land bauð hinum óvæntu gestum fagnandi og brosandi faðm, búhöldum eins og Skallagrími, heilt afskamtað hérað til forræðis, eins og Helga magra, Ingimundi og Auði djúpúðgu. Flestir komu að landi þegar vorblíðan stóð sem hæst, höfrungarnir léku á lognsjónum, og fuglarnir sungu gleði og griðamál, alt var kvikt og þó kyrt og spakt sem í veiðistöð. „Í þann tíþ — segir Ari — vás Ísland viþi vaxið miðli fjalls ok fjöru“. Þær öfgar, sem í þeim orðum felast, sýna hversu endurminning fyrri tímans var farin að fegra tíð og sögu Íslands þegar á dögum Ara. En ótal atvik og ummæli hafa án efa geymst í tryggu minni uns það var fært í letur, þótt meginið hafi magnast og margvíslega breyzt í meðferðinni. Líklega hafa geymst óbreytt orð Ingólfs yfir Hjörleifi dauðum: „sé ek svá hverjum verða, ef eigi vill blóta“, svo og um fráfall Auðar, ummæli föður hennar, um andlát ýmsra atbragðsmanna, eins og Ingimundar

gamla, Askells goða, Þorkells mána, og ótal margt annað. Þess er getið í lögum Úlfljóts, að eigi mætti sigla að landinu „með gínandi höfðum og gapandi trjónum svo landvættir fældist við“. Bendir sú varúð á, að hér hafi þeir viljað friðland fá og að helzti nóg væri fengið af ófriðinum, enda komu margir út með alblóðugar hendur, þeir er létu það vera sitt síðasta verk að ná hefndum yfir óvinum, vega þá eða brenna inni. Öldin var grimm og ofstopafull, alt var undir afli, slægð og áræði komið. Samt sem áður birtist undra fljótt hinn betri maður helztu landnámsmanna, enda sáu þeir þá þegar að ófriður og yfirgangur var hér hið mesta óráð, væri því einsætt að snúa öllum hug og fylgi að friðsamlegum störfum. Varð því yfirleitt aðaleinkunn allra hinna helztu landnema friðsemi og réttvísi. Að vísu voru vígaferli alltíð þegar á landnámstíð — (B. Melsteð telur 80 víg) — en bæði er það lítið hjá því er framfór á söguöldinni, og svo gerðust flest vígaferlin, þar sem þröngbýlt var og ærnar hvatir til ófriðar, er hver maður reyndi að verja sig og sitt, en engin voru lög í landi; voru og nokkrir siðlaus illmenni, er féllu og hlutu að falla á verkum sínum, eins og Þorbjörn bitra, Hænsna-Þórir, eða gamlir ofstopamenn, eins og Þormóður rammi, sem deildi við Ólaf bekk um þrætublett og varð 16 manna bani. Því miður fóru deilur manna vaxandi óðara en héruðin urðu albygð; herti það að vísu á endurbót laga og landstjórnar, þótt einatt stoðaði lítið, er engin var allsherjarstjórnin. Skal nú benda á hin helztu drög til siðmenningar og allsherjarskipulags hér á landi eftir landnámstímann.

Um *átrúnað* vorra heiðnu forfeðra hefur margt verið ritað, en fátt fullnægjandi. Yfirleitt er flestra

skoðun sú, að hinn forni átrúnaður hafi verið mjög blandinn orðinn og bilaður. Sé það satt, sem sagt er í sögum, að Haraldur hárfagri hafi enginn blótmaður verið og hafi jafnvel látið fyrirkoma syni sínum fyrir blótskap[1]) þá er ólíklegt, að limirnir hafi ekki dansað eftir höfðinu, og að trúrækni þegna hans hafi verið mikil eða almenn. Flestir víkingar, eða þeir, sem hingað komu vestan um haf voru eitt af þrennu: goðlausir, blendnir í trú, eða kristnir. Aftur virðast flestir stærri landnámsmenn, enda þótt þeir ekki reistu hof eða hörga, hafi kristnir verið. Og ekki er þess getið um Ingólf, sjálfan trúmanninn, að hann hafi bygt hof í Reykjavík, og virðist hofið á Kjalarnesi hafa verið hið fyrsta og elsta í landnámi hans. Ekki getur heldur Egilssaga um átrúnað Skallagríms né þess að þeir feðgar hafi stofnað hof eða blótstað, en Þorsteinn Egilsson varð einna fyrstur til að gera kirkju á bæ sínum Borg. Af Ísl. sögu B. Melsteðs sézt hve margir bæir voru kendir við hof eða hörga, eitthvað 40 eða fleiri, en slíkt sannar ekki mikið um átrúnað manna eða trúrækni, því að forráðamönnum mun hafa þótt það ærið áríðandi til metnaðar og mannvirðinga að gerast hofgoðar, sáu þeir að þar í falst framtíð þeirra og öll yfirráð í héraði þeirra, Er erfitt að sjá, að þeim sonum Helga hins magra hafi gengið tóm trúrækni til, þegar þeir reistu hof, sitt hvor í nágrenni; sama má segja um niðja Auðar djúpúðgu,

---

1) Að brenna Rögnvaldar réttilbeina hafi verið fyrir tilstilli föður hans virðist mega ráða af kviðlingnum:

Þat es vá lítil | at vér síðim
karla börn | ok kerlinga,
es Rögnvaldr síðr | (réttilbeini)
hróðmögr Haralds | á Haðalandi.

sem eflaust hefur verið kristin kona. En hvernig sem þetta var, er hitt víst, að *vald* goðorðsmanna studdist við og óx í skjóli hofshelgi og blóta. Mun það rétt álitið, að skylda goðanna hafi upprunalega ekki verið önnur en geymsla hofanna og umsýsla við blót og önnur helgihöld. En sakir landshátta hér urðu goðarnir snemma valdhafar (goðorðsmenn), er auk hofgæzlunnar skyldu stýra lögum, gæta réttar manna og friða hérað sitt, er þá hét *goðorð*. Hefur tilhögun þess valds sumpart orðið fyrir sérstaka landshætti, og sumpart eftir norrænum fyrirmyndum. Hér voru hvorki hersar né jarlar til að standa fyrir blótum til árs og friðar eins og í Noregi var alsiða, hlaut því sá réttur og skylda að lenda hjá þeim, sem hofin áttu, má því skoða goðavaldið forna eins og fyrsta vísi eða undirstöðu hins nýja þjóðskipulags og siðmenningar hér á landi.

Að öðru leyti skal hér sleppa, að greina eða sérnefna átrúnað forfeðra vorra; yfirleitt virðist svo, að ásatrúin hafi aldrei verið föst eða einlæg hjartanstrú meirihluta hins heiðna íslenska þjóðfélags; má það ekki villa menn þótt óvild og jafnvel hatur risi sumstaðar upp gegn kristniboðinu, þá er það hófst, því að völd manna og hagsmunir þóttu vera í veði, sérstaklega "fornu" goðanna. Aftur lét alþýðan sig málið miklu minna skifta, eða þeir sem þóttust sitja við skerðan hlut í landsstjórninni, eins og kristnitökurit B. M. Ólsens hefur sýnt. Má segja að kristnin kæmist hér á nálega mótstöðulaust af hálfu alþýðunnar. Beinlínis má segja að enginn maður léti lífið, hvorki sakir hins gamla né nýja siðar. Og mun það einsdæmi um nokkra þjóð í heiminum. Munu þeir goðar hafa verið til, sem lítið meiri trúmenn hafa verið en Egill, er hann kvað:

„Blœtka því
bróður Vílis,
goðjaðar
at gjarn séak",

eða Hallfreður, sem kvað:

„Legg ek á frumver Friggjar
fjón, þvít Kristi þjónum",

því í vísum þeirra er bæði skop og hálfkæringur. En þótt hin heiðna trúin hafi ekki haft mikil siðbætandi áhrif á þjóðina, virðist rétt að álykta, að héraðsstjórn hinna nýju höfðingja hafi farið oftast mætavel úr hendi, líkst feðra- eða heimilisstjórn, þrátt fyrir allar misfellur, víg og vandræði, sem utan frá steðjuðu að. Víða hélst og allgóður friður, sem sjá má meðal annars á hinum stórfeldu heimboðum og vinafundum, má t. d. nefna veislu Auðar, erfið mikla að Hofi í Hjaltadal og heimboð Ólafs pá í Hjarðarholti. Leikir og skemtanir, líf og fjör, sanna hið sama, að friðsemin var reglan, en vígaferlin, þótt tíð væri, undantekning. Um lagarétt karla og kvenna er oflángt mál að ræða hér, svo og öll lögskil á þeim tímum; er það mál einungis meðfæri sérfræðinga; en hér verður að fara fljótt yfir sögu. Einungis skal hér tekið fram, hve mörg ákvæði eru kynleg í hinum fornu lögum, t. d., að hin sama sekt, jafnvel skóggangur, var lögð við smáar sakir sem stórar. En vant er hinsvegar að sjá, hve mörgum slíkum ástæðum, t. d. um launkossa, hrossreiðir og þvíumlíkt, var framfylgt er áreyndi, enda voru undanbrögð og lögkrókar inngróinn ósiður svo lengi sem þjóðveldið stóð. Fullyrða má, hvað *siðferði* fornmanna snertir, að það hafi lítið betra orðið eftir kristnitökuna, en það var áður, og einkum meðan goðavaldið hélt sér sem bezt. Sérstaklega má fullyrða, að hjúskaparlífið og sæmd kvenna

hafi staðið á hærra stigi að jafnaði á söguöldinni og áður, en það stóð er leið að lokum 12. aldarinnar og á Sturlungaöld, þrátt fyrir umvandanir beztu biskupa, kristinnrétt og klerkavald. Að vísu héldu höfðingjar frillur frá fyrstu tíð, en ekki er þess getið fyr en á 12. öld: að menn hafi haldið við tvær frillur eða fleiri í senn og þó verið eiginkvæntir. Spilling sú er magnaðist á 12. og 13. öld, og meðfram fluttist frá Noregi, sýnir bezt hve lítið boðorð og bönn orka, ef þjóðlífið eitrast af ofsa og lagaleysi, einkum þó ef rót trúarlífsins dofnar og deyr fyrir dauða siðaþjónustu. En þótt Landnáma og vorar elztu sögur segi oss margt fagurt og þægilegt frá landnámstíðinni megum vér aldrei gleyma skuggahliðum hennar; skal þeirra verða betur minst í þessu ritkorni. Skal nú ekki lengur fresta að gefa nánara yfirlit yfir stofnun og fyrir komulag hins íslenzka *þjóðveldis*.

Hin fyrsta undirrót þess stórvirkis hefur verið, sumpart endurminning hins norska fyrirkomulags og laga, og sumpart þrá og skylduhvöt hinna vitrustu og siðuðustu landsmanna, að koma allsherjarlögum á í landinu. Þeir sáu glöggt, að svo búið mátti ekki standa, að hver höfðingi færi sínu fram, beitti gerræði sínu eða þýddi fornar lagavenjur eftir vild sinni og eigin hagsmunum, enda var kunnugt, að „víkingar færi ekki að lögum“, og af víkingum höfðu margir sezt að á landinu; skorti og ekki dæmin daglega, að ójöfnuður og ófriður fór því meira í vöxt, sem þéttbýlið varð meira, en bæði réttarskoðanir manna og átrúnaður var bersýnilega á reiki. Þeir sem reyndu að halda nppi blótum og hofshelgi áttu mjög undir högg að sækja, dæmi Þórólfs Mostrarskeggs er þar valið dæmi, enda dugði heldur ekki þótt dómþing væri stofnað í einstökum héruðum,

meðan landi var óskift og ýmsir gátu sagt sig úr þingi frá öðrum, eins og sýndi sig fram að lagasetningu Þórðar gellis. Hvað átti til bragðs að taka til að hnekkja ofsa og ójafnaði? Þjóðin var höfuðlaus her, þrátt fyrir hina mörgu goða sína og höfðingja, en landið stórt og víða örðugt yfirferðar, veðurátta hörð og voði hér og þar á ferðum. Hvað átti að gera svo að allir legðust á eitt og hér stofnaðist fast og skipulegt þjóðfélag — þar sem hvorki var til konungur né jarl, en allir vildu fult frjálsræði hafa, eða *hnífjöfn völd?* Hvar var það einingarband, er tryggja skyldi *það* frelsi? Að vísu var frændsemi mikil og enda vinfengi meðal margra helstu ætta á landinu, sér í lagi þeirra er komið höfðu úr Gulaþingslögum í Noregi, og merkilegt atriði hefur það þótt, að œttmenn Bjarnar bunu voru komnir og seztir að um alt hið nýja land! Hvað lá þá nær, en að nota *þetta* heppilega atvik til allsherjar bjargar og tryggingar hinu nýja landi? Og hvað annað hefur svo vakað fyrir huga *Úlfljóts,* sem með lögin kom, og ýmsum hans líkum? Látum oss heyra hin alkunnu orð úr Íslendingabók Ara fróða um þessa elztu íslensku lagasetning, því að þau skyldi hver íslenskur maður kunna:

„En þá es Ísland vas víþa bygt orðit, þá hafði maður austrænn fyrst lög út hingat ýr Noregi, sá es Ulfljótr hét; svá sagði Teitr oss, ok váro þá Ulfljótslög kölloþ... Þau váro flest sett at því, sem þá váro Gulaþingslög eþa ráþ Þorleifs ens spaka Hörþakárasonar váro til, hvar viþ skyldi auka eþa afnema eþa annan veg setja. En svá es sagt, at Grímur Geitskör væri fóstbróþir hans, sá es kannaði Ísland alt aþ ráþi hans, áþur alþingi væri sett, en hánum fekk hverr maþr penning til á landi hér, en hann gaf fé þat síþan til hofa.“

Lítið er kunnugt um efni og ákvæði Ulfljótslaga, en án efa hafa þau orðið undirstaða íslenskra laga og margrar réttarvenju. Sá atburður var og skömmu eftir að lög þessi komu, að alþingið var sett á þeim stað, er Grímur geitskör hafði valið. Er svo talið, að á hinu fyrsta eða öðru þingi hafi landsmenn kosið Hrafn Hængsson til (fyrsta) lögsögumanns. En síðan liðu yfir 30 ár að oss er ókunnugt um skipulag alþingis. Þá, um 965, varð hin mikla breyting í lögum, er kend eru við Þórð gelli, og fólgin var í því, að landinu var skift í fjórðunga eftir takmörkum, hverjum fjórðungi í þing, og hverju þingi í goðorð; skyldu 3 þing vera í hverjum fjórðungi, en 3 goðorð í þingi -- nema í Norðlendingafjórðungi urðu þingin 4 og eins goðorðin, sakir stærðar þess fjórðungs. Goðar þessir hinir töldu og tilnefndu skyldu skipa lögréttu á alþingi og nefna þá menn, er dæma skyldu, hverjir í sínum fjórðungi (fjórðungsdómar). Þó skyldi dómnefna vera gjörð jöfn úr *öllum* fjórðungum; því var mælt í lögum, að í Norðlendingafjórðungi væri goðorðin að fjórðungi *skerð*, en að sama skapi *aukin* í hinum, þ. e. bæði við lögréttuskipan og dómnefnu. Alt miðaði í þá átt, að jafna völd þjóðarinnar fyrir lögunum, er á þing væri komið. Lögréttan var sett og háð á völdum stað undir berum himni; sátu menn í hálfhring á þrem „pöllum“ og áttu goðarnir sæti á miðpalli og þeir með þeim, er valdir voru til að fylla lögákveðna tölu, alls sátu á miðbekk fernar tylftir. Síðan skipuðu miðpallsmenn hina pallana, hinn fremri og aftari, svo tveir menn, annar fyrir framan og hinn fyrir aftan, fylgdu hverjum er á miðpalli sat. Alls sátu því í lögréttunni 144 menn, auk lögsögumanns og (síðar) biskupa. Alt skipulagið varð nokkuð flókið og hefur valdið allmiklum deilum

meðal fróðra manna. Er best að vísa til rita þeirra B. M. Ólsens og B. Melsteðs. Lögsögumaður var forseti þingsins og fulltrúi meðan það stóð, en það var hálfur mánuður á ári hverju. Hann var kjörinn til þriggja ára og skyldi á þeim tíma hafa framsagt öll lög landsins, og byrja svo aftur sömu framsögu; hann skyldi og stýra þingsköpum og jafnan segja til hvað lög væri, ef til þrætni kom. Allsherjargoði hét sá er helga skyldi þing hvert og gæta helginnar, en annara starfsmanna alþingis eða höfðingja er ekki getið.

Löngu áður höfðu menn stofnað héraðaþing á ýmsum stöðum, svo sem það er Þorsteinn Ingólfsson stofnsetti á Kjalarnesi og Þórólfur Mostrarskegg í Þórsnesi, o. fl. Nú komu upp hin reglulegu vorþing og leiðir (haustþing) í hverri þinghá. Með því var þá lokið því þjóðskipulagi, sem á komst í hinum heiðna sið. En loks settu menn hinn svonefnda *fimtardóm*, er var einskonar landsdómur, er skjóta mátti til þeim málum, er ekki urðu á annan hátt útkljáð.

Þetta var hið mesta þrekvirki hinnar ungu þjóðar. En hvað á að kalla þetta stjórnarform? Það var ríki undir höfðingjastjórn, þar sem tiltekinn fjöldi manna hafði hnífjöfn völd, en engan yfirmann nema *lögin.* Höfðingjar voru að vísu miklu fleiri en hinir 36 goðar, er nefndir voru í lögréttuna. En þetta, er svo ágætlega var hugsað og lögleitt eftir jafnaðarhlutfalli í fyrstu og má virðast sem einkaúrræði eins og á stóð, það geymdi í sér bresti og kosti, er skjótt komu fram. En hvað um það: fyrirkomulagið var stórvirki, er enn í dag ber vott um hið mesta mannvit, háa siðmenning, eins og þá var tímum komið, og hina mestu hagsýni. Og kostirnir voru

og *svo* miklir, að mörgum verður erfitt enn í dag að viðurkenna gallana, sem fylgdu.

## IV.

## Fyrirmyndir. Kostir og ókostir.

Hin forna siðmenning þjóðar vorrar, eins og hún er oss afmáluð bæði í sögum vorum sjálfum og af flestum þeim, sem ritað hafa um efni þeirra og vitnisburð, ber oftast meir á borð fyrir oss, sem nú lifum, af kostunum en göllunum. En allir hljóta að kannast við, að fornrit vor, nálega öll, eru auðug af ótal góðum og glæsilegum dæmum, mannlýsingum og fyrirmyndum. Og því fegri og stórfeldari hefur hin forna öld eðlilega staðið oss Íslendingunum fyrir hugskotssjónum sem meira virðist stinga í stúf þegar menn ósjálfrátt bera saman hina frjálsu og tápmiklu gömlu tíð við afturfaratímana, sem á eftir komu; var og þess öll von, að aðdáun vorra tíma yrði að aukast og margfaldast að sama skapi sem þekkingin á mótsetningunni við síðari tíma varð ljósari og þjóðernistilfinningin meiri. En hinu má ekki lengur neita, að þessi aðdáun á sögum vorum tók loks að ganga úr hófi og trú vor á ágæti þeirra og sögulega gildi að verða blind, — mest fyrir þá sök, að oss var ekki auðið að skilja, jafnvel vorum beztu mönnum, að sú skuggsjá, sem fornsögurnar hafa geymt oss og gefið af þjóðveldistímanum, lýsir hvorki með réttum litabrigðum siðmenning forfeðra vorra *eins og hún í raun réttri var*, heldur eins og hún var skoðuð á 12. og 13. öld; né heldur draga sögurnar þær ályktanir af dæmum sínum, sem algildar gátu heitið þá — hvað þá heldur *nú*.

Flestar sögurnar höfðu borist mann fram af manni í tvær eða þrjár aldir, aukist, fegrast og fullkomnast að efni, búning og orðfæri, alt þangað til að þær voru ritaðar; vér sjáum því fornhetjur vorar eins og í gullinni fjarlægð, en ekki nærri oss eða eins og þeir voru. Saga *alls* landsins var ekki rituð (nema hið stutta, en dýrmæta yfirlit Ara fróða), heldur eru sögurnar, *ætta- og kappasögur*. Aðalstefnan varð því eðlilega sú, að lýsa sem bezt og lofa sem bezt, þá sem hver saga var af; þar komst *listin* skjótt að, því þar mátti ímyndunaraflið láta til sín taka, og laga og fylla, fegra og ýkja sagnir og munnmæli, eins og þurfti. Að vísu má segja, að listin og snildin, sem maður eftir mann fegrar og fullkomnar, bæti það upp sem virkileikinn missir og alt sé fengið með „fyrirmyndunum“. En að því leyti, sem um *sannar* sögur er að ræða, er hitt ekki að efa, að „sannleikurinn er sagna beztur“. Og svo hafa þeir Ari fróði og Sturla Þórðarson án efa hugsað, þeir tveir höfundar, auk Snorra, er vér bezt þekkjum og bezt rituðu, annar með meistaralegri varúð að fylgja réttum heimildum, og hinn (Sturla) að rita sína eigin reynd eða þá eftir sjónar- og heyrnarvottum og öðrum beinum skilríkjum. Einnig Snorri fer mörgum orðum um viðleitni sína að fylgja ekki nema beztu heimildum, sem föng voru á, t. d. kvæðum fornskálda, eigin sjón og öðrum staðháttum. Og að vísu hefur sama skylda vakað í brjósti allra vorra beztu fornu fræði- og sögumanna. En aðgætandi er, að arfsagnir og munnmælasögur fylgja öðrum reglum. Þær sögur breytast ósjálfrátt, þær fylgja hugsunarhætti manna, sem geyma þær, og tíðaranda, og vilja æ verða sögulegri, skemtilegri, tilkomumeiri, fullkomnari, svo — loks hefur Úlfar sterki „tólf í höggi“ !! Öfgarnar koma

ósjálfrátt, hið smáa, ómerkara, sem fylgdi, týnist, en hið verulega fríkkar og magnast, uns sagan er orðin meira eða minna breytt og ólík sinni fyrstu mynd. Þetta eru menn nú farnir að sjá og gagnrýna, einkum erlendir fræðimenn, enda nokkrir þeirra farnir að nálgast gagnstæðar öfgar. Og þótt oss Íslendingum sé einsætt að læra hóf og gát í aðdáun vorri á sögum feðra vorra, er oss skyldast, að gæta allrar varúðar í rannsóknum vorum í öllu er lýtur að vorum frægustu fornmenjum.

En um hina fornu *siðmenning* forfeðra vorra er nokkuð annað mál. Þar er oss alveg óhætt, að draga úr því oflofi, sem lengi hefur tíðkast — eins og hér á landi hafi nokkurntíma verið „gullöld“, og allur þorri vorra fornu stórmenna verið siðferðislegar fyrirmyndir. Eg skal leyfa mér að tilfæra nokkrar málsgreinir, ljósar og einfaldar, úr Íslendingasögu Melsteðs, I. 280: „Landnámsmennirnir höfðu lengi verið í víking áður en þeir fóru til Íslands. Ár eftir ár höfðu þeir legið í hernaði. Þeir höfðu vanist við hörku og hreysti; þeir höfðu farið með ránum og lifað á ránum; saklausa menn höfðu þeir höggvið niður á herferðum sínum, þrælkað eða selt, saklausar konur höfðu þeir hertekið eða svívirt, gert þær að ambáttum sínum eða selt mansali. Hnefarétturinn var lög þeirra og dómur, öxin og sverðið framkvæmdarvald. Slíkt líf hlaut að hafa áhrif á skapsmuni manna, þeir urðu ofsafullir og skapstirðir, áttu erfitt með að hlýða lögum og beygja sig undir stjórn annara eða sameiginlega stjórnarskipan“. Þannig er háttalagi fjölda landnámsmanna eflaust rétt lýst, og um hegðun manna í byrjun sögutímans segir sami höf., II 131: „Svo má heita, að rekja megi blóðferilinn gegnum allar Íslendingasögur á söguöldinni.“ .... „Manndrápin, vígaferlin, eru

svo tíð og almenn, að mikill hluti af sögu vorri, er hér ræðir um, er um vígaferli. Margir landnámsmenn vega menn til hefnda í Noregi, brenna þá inni, eða drepa á einhvern hátt, og stökkva síðan af landi brott til Íslands til að komast undan hefndum.“ „Menn hikuðu eigi við að vega saklausa menn til að svala hefnigirni sinni“. Þetta skýrir höf. með nægum dæmum, enda eru nógar fornvísur til vor komnar, sem ríkulega staðfesta þessa lýsing hinnar fornu menningar.

Ættvíg (blóðhefndir) og mannhefndir mátti kalla fastasta hornsteininn í siðferðishofi forfeðra vorra, og sá hornsteinn haggaðist lítið alt til loka hins forna þjóðveldis. Berum saman þessu til sönnunar tvær tækifærisvísur, er víst má ætla rétt feðraðar. Aðra kvað Kári Sölmundarson þegar Ásgrímur Elliðagrímson spurði hann, hvort honum yrði svefnsamt um nætur veturinn eftir Njálsbrennu, 1014:

„Kemr at ullr of allar
arms síma mér grímur
(beðhlínar mank bænir
bauga) svefn á augu,
síz brandviðir brendu
bauganausts á hausti,
(emk at mínu meini
minnigr) Níal inni“.

Hina kvað Gizur Þorvaldsson um veturinn 1254, eftir Flugumýrarbrennu, nærfelt $2^1/_2$ *öld síðar:*

Enn man ek bál þat er brunnu
baugahlín ok mínir
(skaði kennir mér minni
minn) þrír synir inni.
Glaðr man-at göndlar röðla

gnýskerðandi verða —
brjótr lifir sjá við sútir,
sverðs, — nema *hefndir verði*".

Bera má og saman vísu Móðólfs Ketilssonar, sem Njála telur trúnaðar og gerðarmann Flosa í Brennumálinu — vísuna:

„Stafr lifir einn þars inni —"

og vísu Páls Hvalnesings, vinar Gizurar, þegar þeir höfðu drepið 7 brennumenn í griðum:

„Sjö hygg særða liggja, —
sylg gáfum vér ylgi,
búk sneið blóðigr mækir, —
brennumenn í rennu".

Báðir hælast um illvirkin, þótt aldir séu á milli, enda eru dæmin mörg um það, að laga- eða gerðadómar, fébætur og sættir þótti ófullnægjandi — ef mannhefndir fylgdu ekki með. Þessi mannhefndarástríða varð afarlífsseig hér á landi, svo leifar hennar leynast eða hafa leynst í vitund kvenna sem karla fram á vora daga. „Það lá að, að hann Sigurður hefði mann fyrir sig áður en hann féll," er haft eftir móður Sig. Gottsvinssonar, er sekur varð um Kambsmálið. Og þennan grimma, ram-heiðna hleypidóm ala mjög sögur vorar í ungra hjörtum. Snemma hafa hinir nýkristnuðu forfeður vorir lagt á hjartað — á þeirra hátt, — þetta orð gamla testamentisins: „Mín er hefndin, eg mun endurgjalda". Það vottar sögusögnin um Ámunda blinda í Njálu, þegar hann fékk sýn sína meðan hann drap Lýting, og hrópaði: „Lofaður sér þú, guð drottinn minn, sé ek nú hvat þú vill!" Hinsvegar skoðum vér ekki slík orð fremur sannsöguleg, en orð Höskuldar Hvítanessgoða: „Guð hjálpi mér en fyrirgefi yðr". Að klerkar eða

klaustramenn hafi gengið frá Njálu er víða bersýnilegt, og þótt þeir hafi listamenn verið og stórum heflað og prýtt sögurnar, fer hin sannsögulega rannsókn ekki að því. En slík dæmi sýna vel eldri og yngri hugsunarhátt. Dýrlingurinn Ólafur Tryggvason hefur, að eg hygg, trauðlega borið af Kjartani, er þeir þreyttu sundið, og Jason er sótti gullreifið (hafi sá herra verið til) hefur varla verið jafn fríður maður og Thorvaldsen myndaði hann. Og hvað vora frægu Njálu snertir, megum vér enganvegin rýra slíkt skínandi listaverk, en hitt dylst ekki sagnfræðingum nútímans, að báðir partar hennar, og einkum hinn síðari (t. d. um Kára) er fremur *róman* 12. aldar, en *sönn* saga. Annars liggja ýkjur og öfgar ofan á í *öllum* fornsögum vorum, svo sem um framgöngu manna í bardögum og vopnaviðskifti; er venjan var, að láta kappana vega tvo fyrir einn eða fleiri, enda má stundum leiðrétta eina frásögn eða sögu með annari. Landnáma t. d. telur vígaferli Gunnars, líklega flest hin sannsögulegu, en saga hans í Njálu margfaldar þau; að Kári hafi brytjað niður alla Sigfúsarsonu (nema Ketil mág sinn) og flesta „höfðingja“ aðra úr liði Flosa, aldrei orðið sekur, sæzt við Flosa og átt loks Hildigunni: það er meir en ótrúleg saga! Um bersýnilegar ýkjur *söguritaranna* má finna nóg dæmi. Í einni draumvísu Gísla Súrssonar: „Sték of *einn* áðr ynni“, kveðst hann verða unninn og falla, en hafa áður einn mann fyrir sig, en sagan lætur hann vega 5 og særa aðra 5 til ólífis. Í Fóstbræðrasögu telur Þormóður fóstbróðir Þorgeirs 13 menn alls er Þorgeir hafi vegið „ok eigi fleiri“, og nefnir alla með nafni, en sagan bætir við *öðrum* 13, er hann hafi vegið í Hraunhöfn — einn á móti 40 manns!! Það er ekki fyr en samtímasögurnar (í Sturl-

ungu) byrja, að sögur verða réttorðar um vopnaviðskifti og einstaka atburði og hluti. En frá stærri málum og mönnum segja eldri sögurnar oftast nær furðu rétt, því að þar varð hugsmíðagáfu manna síður hleypt að, og fjarskann allan mundu menn, því *minnið* var sérgáfa í þá daga. Varúð Ara fróða, að rökleiða sem bezt og nefna heimildir fyrir hverju merku atriði, bendir hinsvegar á það, að honum hefur verið fullkunnugt, hve erfitt var þegar á hans dögum, að fást við sagnir og munnmæli.

En engin bók er betur löguð til að leiðbeina oss til að rata framhjá öfgum og ýkjum eldri sagnanna, en hin mikla Íslendingasaga, *Sturlunga*. Eins og sú bók lýsir eðli manna, skaplöstum eða kostum, hreysti manna og vopnaviðskiftum, eins hafa menn verið yfirleitt, bæði áður og síðan. Hvorki landnámsmenn eða kapparnir á dögum þeirra Gunnars eða Grettis, hafa verið stærri eða sterkari en afreksmenn á Sturlungaöld, og á Sturlungaöld hafa varla verið uppi fleiri röskvir menn á landi hér en nú finnast, þar sem menn temja sér vaskleik og harðfengi. Að vísu má kalla allan hetjuskap *fyrirmynd*, en nær liggur oss að stunda þá yfirburði *sjálfir*, heldur en að stara á þá í ýktum fornsögum.

Þá eru enn nokkrar fyrirmyndir ónefndar, og skal því aðeins bæta við dálitlum kafla.

## V.

## Um skáldskap fornmanna og aðrar þjóðmenjar.

Um skáldmenni og skáldskap er lítið getið á landnámstíðinni, utan stöku kveðlinga, sem fylgt hafa fornum

sögnum og nál. eingöngu hafa þjóðsagnalega þýðingu. Þó hefur einn Norðmaðnr, sem til Íslands kom í lok tímabilsins, náð sæti meðal beztu og einkennilegustu fornskálda. Það var *Gísli Súrsson*. Önnur elztu skáld vor voru synir eða sonarsynir landnámsmanna. Þeir voru Egill Skallagrimsson, Glúmur Geirason, Einar Skálaglam og Kórmákur. Öðrum má sleppa hér. Með þessum skáldum hófst hinn mikli drápukveðskapur, og vil ég fara um hann nokkrum orðum yfirleitt.

Mundum vér mega kalla þann skáldskap fyrirmynd á vorum dögum? Eg ætla, því megi óhætt svara neitandi. Drápurnar voru flestar *lofkvæði, efnið* afar-einhæft, en *formið* að sama skapi torvelt og margbrotið. Þar við bætist, að fáar af hinum mörgu drápum og drápubrotum, er oss hafa geymst, hafa nokkuð verulegt *siðlegt* gildi, þótt ýmsar þeirra sanni og skýri sögulega viðburði, Yfirleitt lofa þessi kvæði *alla* konunga jafnt, og nálega einungis fyrir tvo kosti: *hreysti og ørlæti*, ekki einungis örlæti við menn sína, heldur og einkum við *„úlf og örn“*, Væri auðvelt, ef þörf væri, að gefa ungum námsmönnum,til fagnaðar og fyrirmyndar(!) mörg hundruð dæmi úr fornkvæðum vorum um þetta óþrotlega örlæti konunga og kappa, við hrævargana, örninn og úlfinn, svo og Óðins eigin hræfagauk, hrafninn, er ávalt „hlakkaði hagli stokkinn, hræs er kom af sævi.“ Svo kvað Einar skálaglam:

„Fjallvöndum gaf fylli —
fullr varð, (en spjör gullu,)
herstefnandi hröfnum, —
hrafn á ylgjar tafni“.

Eða sem Egill kvað;

Bauð úlfum hræ —
Eiríkr of sæ,“

Þetta urðu stefin, eða viðkvæðin, sem hvert einasta drápuskáld hafði eftir með óþreytandi ítrekun, tilbreytni og orðamun. Sjálfur Sturla Þórðarson, hinn síðasti og mentaðasti drápusmiður hins forna tíma, brennir sig á sama soðinu, og segir:

„Sjálfri skifti örn við úlfa
ógnarbáru meginsára,“

og sneiðir hann þó sýnilega hjá þessum ramforna óvana, svo í Hákonarmálum, hinni fegustu fornkviðu, nefnir hann aðeins einusinni „úlfa ár ok ara ferðar“. Þetta hrævagaukaskvaldur, og svo hið ramflókna kenninga moldviðri, er svo fjarri því að gefa oss fyrirmyndir, að það er átakanlegt dæmi þess, hvernig fegurstu listir geta farið öfuga leið fyrir tízkunnar vana og agaleysi, uns alt er orðið steindauð eftirstæling. Auðvitað finna allir, sem vit hafa á, ljómandi tilþrif í þessum kveðskap, listar og lipurðar, sem einkum dillar eyrum þess, er skilur hina hrynjandi óviðjafnanlegu braglist, t. d. í höfuðlausn Egils (sem menn segja, að ort hafi verið á einni nóttu(!)*, í mörgum vísum Sighvats, Arnórs og Þjóðólfs Arnórssonar og víðar. En slík höfuðskáld máttu við því að leika sér; aldrei lætur andinn sig alveg vera án vitnisburðar. En *siða*meistarar voru fornskáldin ekki; Egill og Sighvatur voru þeir einu, er kendu hærri og hreinni hugsjónir og mannkosti, en tízkan gerði ráð fyrir, og það er rétt, sem Finnur prófessor segir um hinn ágæta

*) Hitt er líkara, að Arinbjörn hafi haldið Egli á laun svo nóttum eða dögum skifti, og gefið honum nægan tíma til að yrkja og „festa“ drápuna um Eirík; ber hún það bersýnilega með sér að hún sé alt annað en hraðkveðin eða „improviseruð“.

Sighvat, að hann hafi verið *samvizka* Norðmanna á sínum dögum, og eflaust einhver bezti og bezt mentaði maður í þá daga á Norðurlöndum. Sama má segja um Egil í heiðnum sið. Hann orti það eina lofkvæði (um Arinbjörn) sem að *því leyti* stendur „óbrotlegt í bragartúni“, því hann lofar vin sinn fyrir sanna og algilda kosti. Egill hefur og efalaust verið betri maður, en almenningur hefur getað skilið, og mynd hans og manngildi hefur skaðlega skemst í meðferðinni. Annars eru teljandí lofkvæði fornskálda vorra um *landa sína*, nema ef telja skal vísur um Heiðarvígin eða Hrafnsmál um manndráp og harðfengi Snorra goða, en stjórnvizka hans ekki nefnd! Um enga hina ágætustu biskupa Íslands eru samtímakvæði til, nema vísurnar um Pál biskup;

„Réð grams laga greiðir“ o. s. frv.

Dýrlingakvæðin eru ygnri og mest um jarteinir. Um Íslands frægustu menn, eins og Skafta, Ísleif og Gizur, Markús Skeggjason, Sæmund fróða, Jón helga og Ara eru engar lofvísur; einungis ein vísa um Snorra Sturluson, og er *níðvísa(!)* Þóroddur nokkur í Selvogi gaf manni gamlan sauð fyrir að yrkja um Snorra þessa vísu:

„Oss lízt illr at kyssa
jarl sá, er ræðr fyr hjarli,
vörr er til hvöss á harra,
harðmúlaðr er Skúli.
Hefr fyrir horska jöfra
hrægamms kvamit sævar
(þjóð finnur löst á ljóðum)
leir aldregi meiri.“

Það voru launin fyrir Háttalykil, eitt af meistaraverkum Snorra.

En þótt nú drápukveðskapurinn, þegar á alt er litið, sé engin fyrirmynd fyrir oss, þá fylgir þó eitthvað það þessum kveðskap, sem hefur með sér undarlega heillandi og herðandi áhrif á flesta menn, sem nokkurri andagift eru gæddir og honum kynnast til hlítar; verður og flestum íslenskum skáldum ósjálfrátt, að bregða fyrir sig hinum hermannlega dróttkvæða hætti forfeðra vorra; sá háttur hefur skjaldahljóm og hjörvahreim „eins og stæltum samslái bröndum". Svo eru og ýmsir runhendir og hrynhendir hættir, sem ávalt hafa uppi verið í íslenzkum kveðskap, sérstaklega eftirstæling hinnar frægu hrynhendu, sem Arnór jarlaskáld kvað fyrstur skálda, að vér ætlum, um Magnús góða:

(„Magnús, hlýð til máttigs óðar").

En til eru önnur fornkvæði, er hiklaust má telja arf vorn og eigu. Það eru *Eddukvæðin*. Í þeim búningi sem þau bera frá fyrstu öldum lands vors, og þótt í brotum séu til vor komin, eins og mörg önnur kvæði, þá geyma þau *ævarandi fyrirmyndir* og þótt erfitt sé að sanna, hvar ýms þeirra hafi frumort verið, t. d. Hávamál og aðrar goðakviður og þulur, þá eru þau öll eign vor samt og arfur, úr því vor þjóð og engar aðrar eiga þau eða hafa geymt þau í þeirri mynd, sem þau hafa. Að öðru leyti verða þeir, sem færari eru en ég, að dæma um það mál og deila. En hver sem niðurstaðan verður, halda þessi kvæði þeim fyrirmyndum ódauðlegs skáldskapar, sem Ísland fyrst, svo öll Norðurlönd, og loks allur hinn mentaði heimur, viðurkennir og dáir meðan lönd eru bygð. Hvergi finst tunga vor fegri og frumlegri en í hinum beztu þeirra, hvergi hetjuskapur, skap-

lyndi og ástríður manneðlisins, stórfeldara, átakanlegra framsett.

Og svo fáein orð sem ályktun og niðurlag.

Hver öld, eða svo kölluð tímabil í sögu þjóðanna, ef lýst er sér í lagi, er partur úr samfeldum vef og má því ekki skoða eins og útaf fyrir sig eða frálaust eins og alþýða gerir. Alt söguefni verður að skilja í sambandi við *áður* og *síðar*, við eðlislög og landshætti þjóðarinnar; alt verður að vísu að rannsaka sérstaklega, en undireins *allsherjarlega*, *þjóðernislega* og *sálfræðislega*. Og loks verður að meta hverja siðmenning og vott siðmenningar með hliðsjón af *algildum* fyrirmyndum. Þá renna aldirnar saman, víkka, stækka, þenjast út eins og samofnar voðir, alt sakir orsakarlögmálsins og hinnar nýju hugsjónar, er kallast *evolútíón*, eða breytiþróun á voru máli. Þá sýnist oss sem mörg daufari öldin verði nálega jafn merk og fróðleg, eðlileg og undraverð og þær aldir, er vér kennum við gull eða silfur eða járn — af því vér þykjumst þekkja þær betur. Þegar vér rifjum upp fyrir oss fyrirmyndir vorra sögulegri frumalda eftir þeim bendingum og takmörkunum, sem eg hef reynt (og þó með ítrekunum) að drepa á í ritgerð þessari, skyldi mig eigi undra, ef ungir námsmenn sem dálítið kannast við hvað leið í næstu löndum, segi um 12. og 13. öld. löndum sem víst ekki stóðu þá forfeðrum vorum framar að menningu — þá skyldi mig ekki undra, segi ég, þótt slíkir menn spyrði: Því eru nálega engar menjar til, nema *ritin*, eftir vora fornu, háu siðmenning? Vér eigum ekkert *hús* frá þeim tímum, enga *brú*, enga *vegi*, engan *garðsspotta*, nema fáeinar rústir eða þústir — hvað kemur til? — áttum vér ekki í þann tíð bæði við og grjót, auðæfi og kunn-

áttu, skip nóg og frjálsa og færandi verzun? Jú, svörum vér, en þjóðin var *höfuðlaus* og landsins ótal herrar jafnir að ríki og mátust um völdin, svo þjóðernið náði aldrei fullum þroska. *Framkvæmdaraflið vantaði.* Dæmið er gefið áþreifanlega í hinni ágætu mannjafnaðardeilu hjá Snorra milli bræðranna Magnússona, Sigurðar Jórsalafara og Eysteins. Sigurður var afar hreykinn yfir stórvirkjum sínum og hinum mikla heilaga rembihnút, er hann kvaðst hafa knýtt heimaalningnum bróður sínum, er hann steig sjálfur upp úr Jórdan. Eysteinn sígur á, og telur þær umbætur, sem *hann* hafi unnið að heima með landsstjórn sinni og lagabótum á meðan hinn hafi verið að „brytja niður blámenn og berserki, og hrapa þeim til helvítis“. Báðir þögnuðu reiðir, enda skildu þá tvær veraldarskoðanir, hin *barbaríska* og hin *siðmennilega.* Í sögunum eru taldar kirkjur, klaustur og konungsgarðar í Noregi, svo tugum skiftir, og flest *úr stein*'. Merkin sjást enn í dag, því bæði standa þar enn þrjár stafakirkjur frá 11. og 12. öld, og líka nokkrar og nálega heilar dómkirkjur. Í Orkneyjum stendur enn kirkja Magnúsar jarls frá 12. öld, og í Kirkjubæ í Færeyjum stendur enn meistaraverk í dómkirkjutótt, sem ekki varð fullgerð sakir siðabótarinnar. Um aðrar þjóðmenningarstofnanir í næstu löndum má margt fleira nefna, sem miklar menjar eftir skildu. En hér finst fátt eða ekkert — nema það sem fornmenjasafn vort sýnir. Hvað sannar það? Það sýnir og sannar það, að forfeður vorir hafa staðið jafnfætis öðrum norðurþjóðum að hagleik og kunnáttu, en vantað *fé, kraft og samheldni til allra allsherjarframkvæmda.* Það var hinn mikli, hinn mesti galli vorrar fornu siðmenningar. Mesta furðan er það, að hinir auðsælu og ágætu biskupar, Gizur,

Klængur, og Oddaverjinn Páll sonur Jóns Loftssonar, er bygði stöpulinn og lét gera Þorláksskrín og aðrar gersemar, skyldu aldrei reisa kirkju í Skálholti, er stóð mannsaldri lengur, án stórra viðgerða. En um slíkt þarf ekki að orðlengja: allsherjarfé, allsherjar umráð og alls herjar þjóðvilji *var ekki til!*

Niðurstaðan verður þá þessi: að afbragðsmönnum hins forna þjóðveldis vors megum vér dáðst, og reyna þó að meta ágæti þeirra rétt, en taka þá ekki til fyrirmyndar blindandi; og að vorum fornu bókmentum eigum vér og megum dázt, en þó með þekking og skynsemi. En alt oflof um vora fornu lands- og lagastjórn eigum vér að tempra úr þessu, og keppast sem mest við að skilja bresti frá kostum. Og loks er þeim einsætt, sem rétt vilja kenna uppvaxandi mönnum fornsögu þjóðar vorrar, að rökfæra sem bezt hinar fornu fyrirmyndir, sýna upptök og afleiðingar allra stærri staðhátta, með fastri hliðsjón af fyrirmyndum og lífsskoðunum nútímans, og gera þeim skiljanlegan þann gagnólíka hugsunarhátt, sem réð nálega lögum og lofum á vorum fræga þjóðveldistíma. En sá hugsunarháttur var alt of oft síngirni tóm og hnefaréttur.

---

Eg býst við að ýmsir, sem kunna að lesa þessar mínar athugasemdir um fyrirmyndir vorra fyrstu alda, muni líta upp stórum augum og segja: Hvað vill skraffinnur sá? Eða mundi hann vera meiri föður vorum Abraham — vitrari en vort foreldri? (eins og Jón Loftsson mælti við Þorlák biskup helga um páfann). „Vel má vera“ — munu þeir segja — „að sumar fyrirmyndir vorra daga eða princip, séu fegurri og hugsjónaríkari

en skoðanir forfeðra vorra voru. En — er þeim princ-ipum *fylgt?* er *réttlæti* vorra tíma, þar sem alt veður saman, nokkru hóti meira ef dýpra er skoðað, en var fyrir 1000 árum?“ En þetta er hættulegur misskilningur, þótt hér sé ekki tími til að leiðrétta hann. Vér trúum á breytiþróun, og vitum fyrir víst, og getum margsannað, að heimurinn fari batnandi, ef hið gervalla er dæmt og samanborið: t. d. Norðurálfan nú og þá! Auðvitað er hitt, að marga óvini er eftir að ráða af dögum, og einhver hinn skæðasti er vanþekking manna og fornir fordómar. En smásaman falla þeir eða fara halloka; vér trúum á guðlega frumrót í manneðlinu og ævarandi *sköpun* og ævarandi *opinberun*; vér trúum og því, að spámenn og spekimenn fæðist enn meðal þjóðanna, sem jafnist, ef til vill, við Esaías og Jeremías. Að vísu fer þroski þekkingar og góðvilja enn á stundum sína leiðina hvort, og veldur það m. a. stríðinu milli auðlegðar og örbirgðar. Hvaðan rís sú alda nema frá ofstopatímunum? og svo vitrar eru nú flestar þjóðir orðnar, jafnvel Tyrkir, að þær hrópa einum rómi til einvaldanna: „gerið reikningsskap yðar ráðsmensku“! Einna lífseigust er *erfðatrúin*, hvað fávísleg sem hún er. Eg man þegar hinir skotsku höfuðprestar sundurrifu sín klæði og ráku sinn vitrasta félaga frá háskólaembætti fyrir þá kenningu, að Móses mundi ekki hafa samið 5. bókina, sem við hann er kend, af því hún segir frá láti höfundarins! *Nú* efar slíkt enginn skotskur kennimaður, og þó eru tæp 35 ár síðan. Enn í dag munu teljandi þeir Íslendingar, sem efast um íþróttir Ólafs Tryggvasonar, eða athuga það, að Hallfreður skáld, sem bezt þekti hann og mest unni honum, nefnir þær ekki, og ekkert skáld fyr en Hallar-Steinn kvað Rekstefju, en þá var

Ólafur orðinn dýrlingur! En á morgun, eða innan skams tíma verða mörg dæmin því sviplík, sett í munnmælaflokkinn, þar sem sagan og skáldskapurinn blandast saman alveg eins og ættartölur, sem snemma hafa lent í ruglingi, svo nú verða ekki greiddar. En víða er sú bót í máli, að sé skáldskapur sagnanna góður og gefi *réttar* og *sannar* fyrirmyndir, halda þær gildi, þótt ekki séu sannsögulegar í fyrstu. Þótt hin sannkristnu orð Höskuldar: „Guð hjálpi mér, en fyrirgefi yður", séu ekki *hans* orð, heldur síðari manna (klerka), sem fegruðu söguna, þá er sú fyrirmynd fullgild, þótt hún eigi illa við Njálutímann; og svo er um ótal önnur snilliyrði Njálu. Um ótal atburði í sögum vorum, þótt ýktir séu, gerir og oftlega lítið til, sé tízkunni og aldarhættinum nokkurnvegin rétt líst. En sé siðmenning þeirra tíma lýst svo, að *svart verði hvítt*, þá fer skörin upp í bekkinn. Eg hefi heyrt skynsamar konur dázt að því „blessaða tákni", að Ámundi blindi skyldi verða heilskygn á meðan hann var að myrða Lýting á Sámsstöðum í hefnd eftir föður sinn, sem Lýtingur var fyrir löngu búinn að bæta fullum bótum. Sviplíkt er Kári látinn gera er hann hefndi brennunnar; og er meginið af þeirri sögu bersýnilega skáldsaga eins og ég áður sagði. Hefur hinn forni inngróni hugsunarháttur um mannhefndirnar stýrt þar orðunum: „Þat hlægir mik, ef þú kemst á braut, mágr, at þú munt hefna vár", mælti Skarphéðinn við Kára, og eru þau orð trúanleg, því ekki „súrnaði honum í augum" af því, að hann hafði vegið Höskuld Hvítanesgoða og Þráinn föður hans, og báða saklausa við sig. Og þó vildu allir — segir sagan — „heldur vera hjá Skarphéðni dauðum en lifandi", og ollu því „krossdílarnir"(!) Þar má skilja hinn forna kristna hugsunarhátt, er víðast

birtist í öllum fornsögum vorum. Fegri fyrirmyndir fylgja að vísu, en þær eru ávalt fáar og sundurlausar, enda benda nær æfinlega til síðari meðferðar á sögunum. Að vísu vitum vér, að við bar, að menn gáfu upp sakir, eins og höfuðlausnarkvæðin votta, en aldrei mun það hafa þótt drengilegt að bera fallna frændur lengi í sjóði, eins og kallað var, án þess mannhefndir kæmi fyrir; studdist og sá grimmi siður mjög við það, að hver aðili var skyldur að reka réttar síns að lögum eða gegn lögum, þar sem ekkert var allsherjarvaldið til. Hinsvegar má segja, að héraðsstjórn hinna betri höfðingja eða goðorðsmanna hafi yfirleitt farið vel fram, enda virðast sumir þeirra hafa verið sannar *fyrirmyndir* að skörulegri og viturri stjórn, og menn eins og Þórður gellir, Snorri goði, Guðmundur ríki, Vopnfirðingar, Síðumenn, Gizur og Hjalti, Egill og margir fleiri hefðu verið sómi og prýði í hverju landi, sem þeir hefðu verið. En hvaðan kom Sturlungaöldin og endir þjóðveldisins? Hinar ytri ástæður vita menn, og ég sleppi að telja þær hér, en rök ófaranna, sé dýpra skoðað, lágu í þeim hugsunarhætti, sem ég hef tekið fram, — þau lágu í sjálfiri *siðmenningu* vorra frægu og glæsilegu forfeðra. Fyrir þá sök er hún engin algild fyrirmynd fyrir þá sem nú lifa né þeirra eftirkomendur.

Loks má minna á *kirkjuna* fornu, og þá siðmenning eða siðbótaáhrif, sem hún hafði á hegðun og þjóðlíf forfeðra vorra. Á yfirborðinu virðast þau áhrif æðiseinvirk og hin heiðna siðmenning oftast bera þau ofurliða, svo hinnar frjálsu kirkju Íslands gætti miklu minna í allsherjarlífi þjóðarinnar, en táknaði fyrir í fyrstu — meðan bezt fór fram eða friðsamlegast í landinu. Virðist sú hin fagra öld (frá enda sögualdarinnar 1030 til

1120 eða nokkru lengur) hafa fremur verið að þakka vizku og stjórnsemi hinna ágætu höfðingja, einkum hinna fyrstu innlendu biskupa, heldur en áhrifum kirkju og kristinnar trúar á hjörtu alþýðu manna. Fyrkomulag kirkjunnar hið ytra var þá svo þjóðlegt og óháð hinu rómverska valdi, sem mest gat orðið. En eftir miðja 12. öldina tók alt álit og vald kirkjunar óðum að rýrna, ruglast og spillast, er erkibiskupaafskiftin tóku til og tvenn lög urðu í landi: „guðslög“ og landslög. Þá kom fram spá Þorgeirs goða, að ef þjóðin skifti lögunum, skifti hún og friðinum. Alt fyrir það hafði nokkuð af hinum betri eða bezta anda og krafti kristindómsins náð rót í hjörtum margra manna, bæði klerka og leikmanna. Valin dæmi höfum vér í mörgum Sturlunguþáttunum, ekki einungis hrein trúræknis- og siðgæðisdæmi, eins og dæmi Ketils prests, er sætti þá Þorgils og Hafliða, eða síðar dæmi Hrafns Sveinbjarnarsonar, eða Steinunnar í Kirkjubæ, heldur hin blönduðu dæmi, þar sem hin eldri siðmenning barðist við hina yngri í brjósti hins sama manns. Kolbeinn Tumason er þar valið dæmi; hann var álíka ráðríkur og Guðmundur biskup frændi hans, og álíka trúhneigður — alt til þess er til öfganna kom hjá Guðmundi; þá tók hinn eldri siður við hjá Kolbeini. Sviplíkt má lesa út úr sögu sjálfra Sturlunganna, nema hvað ofstopi sumra þeirra tróð alt helgara háttalag undir fótum. Sjálfur hinn vitri Páll biskup var á tveim áttum, vildi gæta alls réttlætis í landinu, en sá með leyndri sorg og gremju að við ekkert varð ráðið; og var þó hinn síðasti Oddaverji, er skapaður var sættir manna, og til að skirra vandræðum, hinn helzti maður í lögstjórn lands og kirkju. Og ekki var Snorri vor nein undantekning í þeim hinum mikla tvískinnungi

(dualismi), sem varð banamein hins gamla sjálfsforræðis lands vors. Hann lét sem hann væri vinur kirkjuhöfðingja landsins og skaut oftlega skjólshúsi yfir Guðmund góða, en í *verkinu* fylgdi hann dyggilega hinum eldri og arfgengna hugsunarhætti, og þótt hann væri lögsögu maður annað veifið, varð honum einatt að meta meira ráð sín sjálfs og ríki, en landslög og lagafylgi þegar svo bar undir. Líkt — nema miður — fórst Gizuri, sem þó, eins og aðrir Haukdælir, þóttist hafa fyllri rétt en Sturlungar til alls forræðis í landinu eftir fornum landsrétti. *Hann*, framar öllum öðrum, varð bani þjóðveldisins, því það voru ekki, eins og Sturlunga segir, einungis aðrir, er „eigi vissu hverjum flokki hann, mundi fylgja", heldur vissi hann það oftast ekki sjálfur — fyr en í ótíma. Hversvegna? Vegna þess að vitund hans var tvískift og hann fylgdi engum föstum siðmenningarreglum.

---

Og látum oss svo að endingu spyrja: hverjum siðmenningarreglum mundum vér, sem nú lifum, fylgja? Fornmenn höfðu fá allsherjarorðtæki; þó hafa þeir eftirlátið oss allmörg dæmi þess, að fyrir mörgum þeirra hafi vakað sömu fyrirmyndar hugtökin, sem Frakkar rituðu á fána þjóðveldisins nýja í byltingunni miklu, orðin alkunnu: „frelsi, jafnrétti, bróðerni" — fyrirmyndar orð, sem allar siðmenningarþjóðir — og vér einnig — könnumst við og fylgjum eins langt og menning vor nær. Fornmenn, er sögur vorar settu saman, skiftu mönnum, sem þeir lýsa, ávalt í tvo flokka: *jafnaðarmenn* og *ójafnaðarmenn*, það er: „réttláta menn og rangláta" eins og heilög ritning að orði kemst. Og aðrar siðmenningarreglur nýrri eða víðtækari þekkjum vér ekki. En að

*fylgja* þeim er alt annað mál, og á hvern veg og með hvaða móti réttlæti skuli uppfylla, um *það* stendur eilíf deila og þar tekur við framþróunin, sem vér nú trúum á; þar taka við viðburðir allra vaknandi þjóða, allra sem einstakra, að keppa að allsherjar blessunar markmiðum. Og hér má ekki gleyma hinum trúarlegu hugsjónum, einkum hinum kristilega *guðdómsneista mannsins* (guðsríkis hins innra í oss) og skyldaböndum og bræðralagi allra þjóða (sem vísindamenn nefna með latneska orðinu *solidaritas*, á d. Solidaritet, á e. solidarity, á fr. solidarité). Það hugtak þektu líka forfeður vorir, höfðu oftlega á orði, líkt og brennumenn Flosa, að *eitt skyldi yfir alla ganga*, en það er hugtakið sama. En einmitt *þetta* var Íslendingum fyrrum erfiðast allra fyrirmyndarorða að sýna í breytni, og sá brestur hefur oss æ síðan fylgt. Þó skýrist nú hugmyndin æ betur og betur með batnandi og breyttum viðskiftum manna og þjóða. Bráðum kemst hver einasta þjóð í svo föst og óumflýjanleg sambönd í viðskiftum við aðrar þjóðir, að ójöfnuður og ranglæti einnar bitnar á öllum hinum, svo hvergi verður undanfæri, að sök og sekt lendi ekki á *öllum*. Þannig verður hið andlega og óskrifaða lögmál öllum hugsandi mannssálum ljóst, fyrir vöxt og viðgang reynslu og þekkingar. Og eins og biblían segir, að tíu lagaboðorðin hafi í fyrstu rituð verið á *steintöflur*, segja fræðimenn vorra tíma, að *öll* allsherjar lög séu frumrituð í *eðli tilverunnar sjálfrar*.

Fornmenn voru „fatalistar“, eða örlagatrúarmenn, sbr. ýms orðtæki í fornkviðum, orðskviðum, spakmælum og sögudæmum, svo sem: Eigi má feigum forða, Urðar orði kveðr engi maðr, Engi má sköpum renna, o. s. frv. Margir kváðust trúa á „mátt sinn og megin“, en aðrir

á einhver goð, ármenn eða aðra vætti, en undirniðri bjó annað, og oftastnær beigur fyrir einhverju, er ekki mætti sjá við, svo sem fjölkyngi, rúnum, álögum og annari forneskju. Af þessum hugmyndum eimir eftir enn. „Fátt er ramara en forneskjan“ hugsuðu allir. Svo kvað höfuðskáld vort á 17. öld:

„Valt er um vél norna,
veðr um dags morgna,
aldr hins óborna,
ávöxt sáðkorna;
skimpi skenkshorna;
nær skúr muni þorna,
forðast spá forna,
*forlögum við sporna.*

Og það var trúarskáldið Hallgrímur Pétursson, sem þetta kvað. Trúin á *frjálsræðið*, og jafnvel *forsjón*, hefur einatt átt „formælendur fá“ í veraldlegum kveðskap þessa lands! En svo á það ekki framvegis að vera. Hið forna bölsýni (pessimismi), sem frá frumöldum vors stríðanda kyns hefur verið grunntónninn í lífsskoðun flestra þjóða, ætti að fara að víkja, og *fer að víkja* fyrir betri og bjartari útsýn (optimismi). Fyrir þeirri lífsskoðun rofar síðast í voru djúpsettasta og elzta fornkvæði: Völuspá, enda er þess getið til að sú hugmynd sé ekki upprunalega norræn, heldur stafi frá kristnum kenningum eða Sibyljuspám hinna eldri kristnu alda. En lítt benda önnur fornkvæði vor á þá trú, og hvorki finst hún í Sólarljóðum, er ort hafa verið, eða a. m. k. endurkveðin, í kristinni tíð, eða í því formi kaþólskunnar, er kom hingað og kend var með kristninni, þótt vissulega fylgdu upprunakenningu Meistarans. Þeir sem einna fyrstir manna bregða upp fyrir oss Íslendingum bjartsýnni

lífsskoðun, með forsjónar- og frjálsræðistrú, voru þeir Björn Gunnlögsson hinn spaki (í Njólu), og „listaskáldið góða“ Jónas Hallgrímsson, á hinum síðustu mannsöldrum, eða síðan þjóð vor tók að eiga með sig sjálf og vakna til meiri og glaðværri meðvitundar, hafa fleiri og fleiri skáld og kennimenn náð að losna úr fornum fjötrum fordóms og rangrar „rétttrúunar“, og kveðið eða gert í anda þess sem kvað:

„Trúð' á tvent í heimi,
tign sem hæzta ber:
Guð í alheims geimi,
guð í sjálfum þér“.

Stgr. Th.

Sú heims og lífsskoðun kemur heim við þá handbók fyrir barnafræðara, sem nafntogaður enskur vísindamaður, Sir Oliver Lodge, hefur nýlega samið og síðan (1909) hefur runnið út um allan enskumælandi heim. Sú bók er nú væntanleg á voru máli, og munu allir þeir, sem fallast á það, sem hér að framan er bent á, taka því riti vel, því þótt fjöldinn, eða alþýðan, verði á eftir fyrst um sinn, er ekki tiltökumál, enda holt og gott meðan menn hvorki hafa tíma né tök á að nema nýjar skoðanir, því að án hárra og helgra lífsskoðana geta engir alvarlegir menn staðist í stríði lífsins. Og þótt flest af af hinu „nýja“, sem svo er kallað, sé í raun réttri í mörgu svipað hinu „gamla“, og sé einungis lagað eftir því sem tímar og hugsunarhættir breytast samkvæmt heimsþróunarlögmáli drottins, þá er skiljanlegt, að *trúmenn*, sem fundið hafa frið í eldri skoðunum, nemi ekki hið nýja, er þeir aldrei hafa heyrt, á stuttnm tíma, þeir vita hverju þeir sleppa, en ekki hvað þeir hreppa. En léttúðugri mönnum ferst aftur sviplíkt og Hallfreði gamla

Hallfreði gamla vandræðaskáldi: Þeir verða tvíátta eða gera skop að hvorri tveggja kenningunni.

En eitt ætti mönnnm að vera innanhandar að læra, (ef ekki eru bundnir og brjálaðir af einræni eða ofurkappi) að umburðarlyndi gagnvart annara skynsamra manna skoðunum er hrein og bein *skylda* nú á dögum, þegar allir hlutir og allar skoðanir eru á hreyfingu — öllu stefnt fyrir mannsandans og tíðarinnar dóm — rétt eins og *Meistarinn frá Galíleu* væri aftur stiginn niður á jörð vora til að boða guðsríkið og segja: *„Nú mun hvert það tré, sem ekki ber góðan ávöxt verða upp höggvið og á eld kastað. Af ávöxtunum skulu allir þekkjast“*.



# Uppdráttur
# Noregs hins forna.

**Fylgir:**

**Matth. Jochumsson:**

**SMÁÞÆTTIR** um bygging Íslands og vora fornu siðmenning.

*Bispedömmer*

*I Niðarós II Bjorgvin III Stafangr IV Hamarr V Osló*

*• • • • • • Stiftsgrænse*

